# Kennslubók

handa

# Yfirsetukonum

eptir

**Dr. C. E. Levy,**

kennara í fæðingarfræði við háskólann í Kaupmannahöfn og við hið konúnglega fæðingarhús.

Snúin á íslenzku eptir ráðstöfun kansellíisins

af

**Gunnlaugi þórðarsyni**

stud. medic. & chir.

**Kaupmannahöfn.**

Prentað hjá *Biancó Lúnó.*

**1846.**

Á tímabilinu frá því Saxtorphs yfirsetukvennafræði kom út, hefur fæðíngarfræðin tekið þeim stakka skiptum, og hjálpin í fæðíngunni orðið í mörgum greinum svo frábrugðin því sem hún var á þeim tíma, að öll nauðsyn þótti til bera, að ný kennslubók væri samin, þegar höfundurinn fyrir fimm árum síðan gjörðist forstöðumaður fyrir yfirsetukvennaskólanum í kaupmannahöfn. Til þess að ráða bót á vandkvæði þessu, rjeðist höfundurinn því í að semja kennslubók þessa, sem kom út á dönsku árið 1843, og er hún kölluð: „Udtog af Födselsvidenskaben som Lærebog for Jordemödre".

Eptir ráðstöfun kanselliisins er kennslubók þessari snúið á íslenzku, og henni einúngis breytt að því leyti, að höfundurinn hjer og hvar hefur leitast við að skýra nokkru nákvæmar frá, hvernig yfirsetukonan má veita hjálp í fæðíngunni, þegar nokkurn vanda ber að

höndum, og þótti því fremur nauðsyn á slíku, sem opt er örðugt að ná til læknis á Íslandi.

Geta má þess, að á ýmsum stöðum eru önnur orðatiltæki og kenníngarnöfn við höfð, enn í „íslenzka yfirsetukvennaskólanum”, og vera má, að nokkur þeirra að minnsta kosti eigi eins vel við.

**Kaupmannahöfn,** í marz-mánuði 1846.

# Efni bókarinnar.

---

## Fyrsti þáttur.

### Um fæðíngarpartana.



---

## Annar þáttur.

### Um meðgaungutímann.

---

## Þriðji þáttur.

Um yfirsetukvennafræðina.

### *Fyrsti kafli*

um fæðínguna sjer í lagi.



### *Annar kafli.*

Um fæðínguna þá er hún er með öllu eðlileg.

## Þriðji kafli.

## Um óeðlilega fæðíng og hálpina þá svo er ástatt.

### A. *Um hina óeðlilegu fæðíng þá konunni er um að kenna.*

---

# Fyrsti þáttur.

## Um fæðíngarpartana.

### 1sta gr.

Yfirsetukonunni ber eigi einúngis að leggja ráð og veita hjálp í fæðíngunni sjálfri, heldur er og opt þörf á slíku um sjálfan meðgaungutímann, og þá er konan liggur á sæng. Hún verður því að hafa kynnt sjer til hlítar þessa lífskafla konunnar, bæði þá er allt fer sem skipulegast, og eins þá er út af ber. En til þess að yfirsetukonan hafi ljósa hugmynd um slíkt, er nauðsynlegt, að hún þekki nákvæmlega þá parta líkamans, sem í þessari grein allt er undir komið, og eru það **fæðíngarpartarnir.**

Fæðíngarpartarnir skiptast í tvo flokka: þá er *utar liggja*, og má sjá þá utan á líkamanum, og þá er *innar liggja*. Hina innri parta geta menn eigi sjeð, og er fyrir þá sök einúngis með áþreifíng hægt að kynna sjer þá, en þeir eru þessir: *mjaðmagrindin*, *barnslegið*, *eggjakerfin*, *legpípurnar* og *leggaungin*; hinir ytri: *holdbrúin* fyrir aptan blygðunina, og *blygðunarpartarnir*.

Nú skal skýra frá hverjum þessara parta sjer, en þess ber að geta, að á þessum stað er svo gert ráð fyrir, að þeir sjeu eins og þeir eiga að sjer að vera, þá er þeir eru ósjúkir, og eins og þeir eru, áður enn þeir breytast um meðgaungutímann og í fæðíngunni.

---

## FYRSTI KAPÍTULI.

## Hinir innri fæðingarpartar.

### I. *Mjaðmagrindin.*

### 2ur gr.

Beinagrind nokkur neðst í bolnum er nefnd svo. Að ofanverðu er grindin áföst við mjóhrygginn, en að neðanverðu er hún teingd við lærleggina. Beinin í henni eru á þann hátt skeytt saman, að á milli þeirra myndast hol nokkurt, sem er opið að neðanverðu og að ofanverðu, en í því liggur barnslegið, eggjakerfin, legpípurnar og leggaungin, og enn hlandblaðran og endagörnin. Þá er barnið fæðist, liggur vegur þess úr leginu gegnum grind þessa, og má þessvegna kalla hana: hinn *harða fæðíngarveg*, en leggaungin og hina ytri fæðíngarparta: hinn *mjúka fæðíngarveg*. Skoða má grindina með tvennum hætti: annars vegar einúngis bein þau, er mynda hana, og á hinn bóginn hol það, er myndast við samskeytíng beina þessara.

### 3ja gr.

Grindina mynda fjögur bein, og eru það: *tvö stór bein*, sitt á hvora hlið (þau eru kölluð einu nafni *mjaðmarbeinin*, og ná þau saman að framan og neðanverðu), *spjaldið* (beinið í spjaldhryggnum), og *typpið* (það samsvarar rófubeininu á skepnum). Hin tvö síðast nefndu bein og neðsti liðurinn í mjóhryggnum mynda bakhluta grindarinnar. Mjaðmarbeinin eru með öllu eins, og það sem sagt verður um annað þeirra, má að sínu leyti eins heimfæra uppá hitt.

**Mjaðmarbeinin** má, hvort um sig, á börnum aðgreina í þrjá parta, og eru þeir skeyttir saman með brjóski, en síðar, eptir 7da eða 8da ár, gróa þeir saman, og á fullorðnum verður einúngis eitt bein úr þessum þrem pörtum. En sökum þess að beinið er æði stórt, hefur mönnum komið saman um að nefna hina einstöku parta beins þessa, eins og þeir voru nefndir í fyrstu, þá er þeir voru eigi grónir saman á barninu. Ber það einkum til þess, að hægra þykir að lýsa beininu þá svo er með farið, og svo virðist, sem þá muni greinilegar verða skýrt frá auðkennum þeim, er á því eru, og síðar mun sagt verða. Af þessum rökum er mjaðmarbeininu, hvoru um sig, skipt í þrjá parta, og eru það: *mjaðmarspaðinn*, *setubeinið* og *nárabeinið*.

*Mjaðmarspaðinn* er stærstur af beinum þessum; hann liggur efst, og myndar breiðan flöt, sem að innanverðu er nokkuð íbjúgur. Hin efri rönd á mjaðmarspaðanum er eigi samteingd öðrum beinum, og er

fremsti partur hennar kallaður *randartoppurinn.* Nokkru neðar má sjá ávala rönd á þeirri hliðinni á beini þessu, er veit inn í grindarholið. Hún myndar nokkurn hluta af boga þeim, er aðskilur efra og neðra grindarholið. Að aptanverðu er mjaðmarspaðinn teingdur við spjaldið með brjóski.

*Setubeinið* er hinn neðsti hluti mjaðmarbeinsins. Sá hluti beins þessa, er veit upp, er eigi fyriferðarmikill, en sá hlutinn, er niður veit, er allur þykkri, en þar er partar þessir mætast, myndast nokkurskonar horn, er kalla má *setubeinskrókinn.* Fyrir ofan krókinn, á þeirri hliðinni á hinum neðra hluta setubeinsins, er aptur veit, er beinnibba nokkur, sem kölluð er *setubeinsnibban;* hún veit inn að. Tvö *sinabönd* liggja hjeðan, annað frá króknum, en hitt frá nibbunni; lendir þeim síðar saman, og festast þau svo á hinum neðra hluta hliðarrandarinnar á spjaldinu. Bönd þessi mynda hinn aptari barm á neðra opi grindarinnar.

*Nárabeinið* liggur að framanverðu og er hinn fremsti hluti mjaðmarbeinsins. Annar partur þess liggur um þvert, en hinn liggur niður á við, og mætir hann þá þeim parti setubeinsins, er upp veit. Á þeim hluta beins þessa, er um þvert liggur, má sjá eigi alllitla rönd, og myndar hún, líkt og röndin eða boginn á mjaðmarbeininu, takmörkin milli efra og neðra grindarholsins. Að framan mætast bæði nárabeinin, og skeytast saman með breiðu brjósklagi. Þessa samkomu nárabeinanna kalla menn *blödrubeinið*, og neðanundir

því, þar sem hinir neðri partar nárabeinanna fjarlægjast, verður nokkur *bugur* á, og er hann kenndur við *blöðrubeinið**).

Þessir þrír partar af mjaðmarbeininu, er nú hefur verið skýrt frá, eru á börnum aðskildir, en síðar gróa þeir allir saman, og má sjá samskeyti þeirra í holu nokkurri utan á mjaðmarbeininu. Hola þessi er hál innan, og geingur í hana efri endi lærleggsins; hún er kölluð *augnakallinn*, sem á þenna hátt myndast við samskeyti þessara þriggja parta af mjaðmarbeininu, og ef hægt væri að skilja þessi þrjú bein að, mætti sjá nokkurn hluta af liðaholu þessari á hverju beininu sjer.

**Spjaldið** er fyrirferðarmikið, breitt að ofan, en mjókkar þá er niður eptir dregur. Sá flötur beins þessa, sem veit inn í grindina, er að mestu leyti sljettur, og mjög svo íbjúgur. Á þeim fletinum, er snýr út, eru margar ójöfnur; hann er hvelfdur, og á miðjunni standa út úr honum beinnibbur, sem glöggt finnast, þá þreifað er utan á líkamanum. Bein þetta er á börnum samsett af mörgum pörtum, en síðar gróa þeir allir saman, og má sjá samkomurnar á innri fletinum. Að ofanverðu er spjaldið samteingt við hinn neðsta lið í mjóhryggnum með brjóski, til hliðanna við

---

*) Í yfirsetukvennafræði Saxtorphs nefnir Jón læknir Sveinsson bein þau, er nú hefur verið skýrt frá: hið helga bein, dausbein, mjaðmarbein, sessbein, lífbein og blygðunarbein, en hjer eru þau kölluð: spjaldið, typpið, mjaðmarbein, setubein, nárabein og blöðrubein. Til að stytta fyrir sjer mundi mega kalla nárabeinin og blöðrubeinið einu nafni: kviðbeinið.

mjaðmarbeinin, en að neðanverðu við typpið, og eru þau liðamót sveigjanleg. Af samskeytum neðsta mjóhryggjarliðsins og spjaldsins, myndast beinrönd nokkur eigi all-lítil, og má kalla hana *spjaldbúnguna*. Til beggja hliða út frá búngu þessari, í grend við samskeyti spjaldsins og mjaðmarbeinanna, eru hin *íbjúgu vik grindarinnar*.

**Typpið** er lítið á stærð, þríhyrnt, og er samsett af mörgum smápörtum, er áfastir eru hver við annan. Að ofan er það teingt við spjaldið, og eru þau liðamót sveigjanleg, en neðra enda þess má finna bakvið þarfagánginn. Fyrir þá sök að samskeyti beins þessa og spjaldsins eru sveigjanleg, eins og áður er sagt, lætur bein þetta undan í fæðíngunni, og sveigist það þannig hjerumbil einn þumlúng aptur á við, og víkkar þá hið neðra op grindarinnar um það, er þessu nemur.

Athugagr. Til at skýra það er nú þegar hefur verið frá sagt, eru hjer settar tvær myndir, og sýnir fyrri myndin grindina eins og hún er, en hin síðari greindarbeinin þá þau eru tekin úr samskeytunum.

1 mynd.



Myndin sýnir:

a. mjaðmarbeinin til beggja hliða.
b. hinn neðsta mjóhryggjarlið.
c. spjaldið.
d. typpið.
e. spjaldbúnguna.
f. hin íbjúgu vik grindarinnar til beggja hliða.
g. blöðrubeinið.
h. bogann undir blöðrubeininu.
i. augnakallinn beggja megin.

2 mynd.




Myndin sýnir:

A. mjaðmarbeinin, og má sjá á þeim samkomur:
   a. mjaðmarspaðans,
   b. nárabeinsins og
   c. setubeinsins, þar sem þau mætast í augnakallinum, og skeytast saman með brjóski.
B. neðsta liðinn í mjóhryggnum.
C. spjaldið.
D. typpið.

## 4da gr.

Hinn efri og neðri hluti **grindarholsins** eru mjög svo frábrugðnir hvor öðrum, bæði að vídd og allri lögun, og

má þessvegna kalla hinn efra part grindarinnar: *hið stóra grindarhol*, en hinn neðra hluta: *hið litla grindarhol*. Áður er skýrt frá eigi all-lítilli beinrönd á þverhluta nárabeinsins, sem nær saman við bogann á mjaðmarspaðanum, en þá tekur við að aptan búngan á spjaldinu, er sameinar mjaðmarspaðabogana frá báðum hliðum. Hríngur þessi, er þannig myndast, gerir aðskilnaðinn millum hins stóra og litla grinðarhols.

Mjaðmarspaðarnir mynda hið *stóra grindarhol* til hliðanna, og á baka til neðsti mjóhryggjarliðurinn, má því og segja, að hann sje að nokkru leyti eitt af sjálfum grindarbeinunum, þó eigi sje þess áður getið. Að framan liggja eingin bein í stóra grindarholinu, heldur tekur þar við kviðurinn, og kemur slíkt opt að góðu halldi, þá er kanna skal þá parta, sem eru í sjálfu grindarholinu.

Litla grindarholið mynda að framan *kviðbeinið* (nárabeinin bæði og samskeytaflötur þeirra eða blöðrubeinið), til hliðanna setubeinin, og nokkur hluti mjaðmarspaðanna, og sinabönd nokkur, en á baka til lendabeinið og typpið. Það er því á allar hliðar umgirt að mestu leyti af beinum, og sökum þess að það er miklu minna í sjálfu sjer, er það auðsætt, að hjer muni einkum tálmast fyrir burðinum í fæðíngunni.

Nú má ímynda sjer hið litla grindarhol sjerílagi; verður það þá opið að neðan og að ofan, en beinagrind umhverfis, og verður þá auðsætt, að op þessi má kalla hið *efra* og *neðra op*.

Hið *efra op* litla grindarholsins byrjar þá auðsjáanlega á takmörkum stóra og litla grindarholsins, og barmur ops þessa verður með öllu hið sama og takmarkaboginn milli hins stóra og litla grindarhols. Þá er op þetta er nákvæmar virt fyrir sjer, sýnist lögun þess líkjast hjarta.

*Neðra opið*, eða þar er litla grindarholið hættir, takmarkar að framan boginn undir blöðrubeininu, til hliðanna krókarnir á setubeinunum og sinabönd nokkur, en á baka til typpið. Þá er maður ímyndar sjer typpið sveigt á bak aptur, eins og t. a m. í fæðíngunni, verður op þetta að mestu leyti í lögun eins og egg.

Allt bilið millum efra og neðra opsins er kallað *litla grindarholið*, og líkist það að miklu leyti eggi að lögun, eins og sjá má af myndum þeim, er hjer standa.

Athugagr. Myndin 3 sýnir lögun efra opsins, en myndin 4 lögun neðra opsins, og myndin 5 lögun sjálfs holsins, og enn er með henni sýnd vídd þess, sem síðar mun sagt verða.

3 mynd.




4 mynd.




5 mynd.



5ta gr.

Leið burðarins liggur í fæðíngunni um grindarholið, og náttúran sjálf hefur borið umhyggju fyrir, að það hjerumbil samsvarar stærð fulltíða burðar. Af þessu er þá auðráðið, að öll grindarhol kvenna verða hjerumbil jafnstór, sjeu þau annars vegar rjett mynduð, og hafa menn og komizt að raun um að svo er. Í því skyni hefur verið tekið eptir vídd og lögun margra grinda, millum tiltekinna auðkenna á grindarbeinunum, og hefur sú raun á orðið, að víddin er að mestu leyti jafnstór í öllum grindum og lögunin hin sama, og hafa menn því komið sjer saman um að kalla þá grind einúngis rjett myndaða, er samsvarar þessari viðteknu vídd og lögun.

Yfirsetukonan þarf að kynna sjer **vídd** þessa og **lögun** grindarinnar, svo hún megi gjöra mismun á, hvort grindin er rjett mynduð, eða henni sje í nokkru áfátt; hún skal því setja á sig þá vídd og lögun grindarinnar, sem hjer segir:

Í hinu *hinu stóra grindarholi* er einúngis eitt bil tiltekið, og er það bilið millum randartoppanna á mjaðmarspöðunum, og er það talið 9 þumlúngar.

Enn öðru máli er að gegna um *litla grindarholið*, sökum þess, að það er eigi jafnvítt á öllum stöðum, og verður því að tiltaka vídd þess bæði að ofan og neðan og um sjálft holið, og er þetta sýnt í myndunum 3, 4, 5, á þessa leið:

A. Í *efra opinu* eru þessi bil tiltekin:

1. *Víddin á þykktina*, frá búngunni á spjaldinu í röndina á blöðrubeininu, 4 þumlúngar (myndin 3. línan 1-2).
2. *Víddin á breiddina*, frá miðjum boga mjaðmarbeinsins til sama staðar á hinu mjaðmarbeininu, 5 þumlúngar (myndin 3. línan 3-4).
3. *Víddin á ská*, úr samskeytum nárabeinsins og mjaðmarspaðans á aðra hlið og þaðan á ská í grindarvikin, er talin hálfur fimmti þumlúngur (myndin 3 línurnar 5-6 og 7-8).

B. Í *neðra opi grindarinnar*:

1. *Víddin á þykktina*, frá boganum undir blöðrubeininu til neðsta enda á typpinu er hálfur fjórði þumlúngur, en í spjaldið rjett fyrir ofan typpið, er hún fjórir þumlúngar (myndin 4. línan 1-2).
2. *Víddin á breiddina*, millum krókanna á setubeininu, fjórir þumlúngar (myndin 4. línan 3-4).

C. Í sjálfu *grindarholinu* telst svo til:

1. *Víddin á þykktina*, frá miðju spjaldinu mitt á blöðrubeinið, hálfur fimmti þumlúngur (myndin 5 línan 1-2).
2. *Víddin á breiddina*, millum fremstu nibbanna á setubeinunum, fjórir þumlúngar (myndin 5 línan 3-4).

Af þessa má nú sjá, að hið litla grindarhol eigi er á öllum stöðum jafnvítt, og eins er það heldur ekki

jafndjúpt á allar hliðar, því grindin sjálf nær eigi jafnhátt upp á öllum stöðum. Styttst nær grindin upp að framan hjá blöðrubeininu, og er hæð hennar þar einúngis hálfur annar þumlúngur; til hliðanna geingur hún leingra upp, og verður hæðin þar hálfur fjórði þumlúngur frá krókum setubeinsins upp að efri rönd nárabeinsins; leingst nær grindin upp eptir að aptan, frá neðri enda typpisins upp að búngunni á spjaldinu, og er hún þar fimm þumlúngar á hæð.

5ta gr.

Margur mundi ímynda sjer, að nóg væri þá að gert, er búið er að kynna sjer stærð grindarholsins, en sú þekking er eigi einhlít, heldur þarf og að taka eptir **vindíngnum** á því, og fá rjetta hugmynd um hann. Sá færi mjög svo villt, er ímyndaði sjer, að grindarholið væri beinn vegur að ofan og svo niður úr, er burðurinn fer um í fæðíngunni. Vegur þessi er þar á mót, eins og grindin sjálf, undinn, og það einna mest um neðra opið. Setjum nú svo, að lína sje dregin beint í gegnum mitt grindarholið, þá verður lína þessi einganveginn bein, heldur verður hún bogin, og samsvarar bugða sú, er verður á línunni, því nær bugðunni á spjaldinu. Lína þessi, er þann veg er dregin, og einmitt sýnir bugðuna á grindarholinu, er nefnd *miðlína grindarinnar*, sökum þess hún á öllum stöðum hittir miðju grindarholsins. Línu þessa verður yfirsetukonan allajafna að

hafa i huganum, þá er annaðhvort þarf að fara með nokkra fíngur eða alla höndina upp í gegnum grindarholið, í hvert skipti sem ransóknar er þörf, eða þá er á fæðíngunni stendur, og er með öllu naudsynlegt að stefnan með fíngrunum eða hendinni samsvari grindarhols miðlínunni, og burðurinn fer einmitt eptir þessari stefnu um grindarholið.

6 mynd.




Með mynd þessari er sýnd hliðarhelft grinðarholsins, og má á henni sjá:

a—b, miðlínu grindarholsins, og hittir hún miðju allra víddanna á þykktina, svo sem:
c—d, víddina á þykktina í efra opi grindarinnar.
e—f, sjálfs holsins, og
g—h, í neðra opi grindarinnar.

Sjer hvað eina, sem hjer að framan hefur verið skýrt frá, má og segja um allar rjettmyndaðar grindir. En síðar mun greint frá, að grindunum er á stundum í nokkru áfatt, og opt eru þær ílla lagaðar, en slíkt tálmar fæðíngunni.

## II. Barnslegið og partar þess.

### 7da gr.

Mitt í efra hluta litla grindarholsins er *barnslegið*. Er það holt innan, að mestu leyti samsett af holdtrefj-

um og æðum, og utan á því liggur himna nokkur, og er hún hál viðkomu. Áður konan verður barnshafandi — svo er gert ráð fyrir á þessum stað — er legið breiðara að ofan, og mjókkur eptir því sem niður eptir dregur. Leingd þess er svo sem þrír þumlúngar.

7 mynd.




Barnsleginu (myndin 7, A a b c d) er skipt í: legbotninn (a), legbolinn (b), og leghálsinn (c).

Hinn efsti hluti legsins er kallaður legbotninn, og er hann hvelfdur, en miðhlutinn, sem er allur þykkri, legbolurinn, og leghálsinn hinn mjórri og neðsti hluti legsins. Leghálsinn er svo sem þumlúngur á leingd, og nær helmíngur hans niður í leggaungin (i), án þess að skeytast saman við þau, og má finna til hans þar

með fingrinum, og er hann harður viðkomu og svo sem nabbi nokkur. Neðst á leghálsinum er þverop nokkurt millum tveggia barma, og er op þetta nefnt *legopið* (d). Op þetta nær inn í hol legsins, en fremri barmurinn nær nokkru leingra niður, enn hinn aptari.

8 mynd.




Þá er barnslegið er skorið í sundur eptir endilaungu, má sjá að það er holt, og er rúm þetta innan í leginu kallað *legholið*. Hol þetta er í legbotninum (a) og legbolnum (b) að miklu leyti þríhyrnt, en naumast er það svo stórt, að í því rúmist ein hnot. Þar er leghálsinn (c) tekur við verður það mjórra og pípumyndað, þó svo að það er breiðara eða stærra um miðbikið, enn til endanna. Úr legholinu eru samgaung um legopið (d) í leggaungin (f). Í þeim tveim hornum, er verða á legholinu upp undir legbotninum, eru tvö smá op, sitt hvoru megin, og eru þar samkomur legsins og legpípnanna (e-e), og er þannig um op þessi innangeingt millum legholsins og legpípnanna.

Eins og áður er skýrt frá, liggur barnslegið í efra hluta grindarholsins, á þá leið að það liggur á bakvið blöðruna, fyrir framan endagörnina, og að neðanverðu er það áfast við leggaungin. Legbotninn veit upp og nokkuð fram á við, en legopið niður og nokkuð aptur

á við. Þannig liggur legið, og er það áfast bæði við blöðruna og endagörnina, og auk þessa festa það *hin sívölu legbönd* (myndin 7. k-k), sitt til hvorrar hliðar, er gánga úr leginu fram á við, undir húðina fyrir ofan blöðrubeinið, og enn hin *breiðu legbönd*, sem teingja legið til beggja hliða við mjaðmagrindina (myndin 7. h-h).

Úr leginu koma tíðir kvenna, og um meðgaungutímann liggur eggið og burðurinn í því, og vex þar og dafnar; í fæðíngunni kiprar legið sig saman, og með því eins og rekur það á eptir burðinum og fylgjunni út úr legholinu.

8da gr.

*Hin breiðu legbönd* (myndin 7. h-h) eru tvö, sitt til hvorrar hliðar á leginu, og myndast þau úr himnu þeirri, er eins og áður er skýrt frá, liggur utan á leginu sjálfu, og snýst hún eins og saman, þar er bönd þessi gánga út úr því. Svo má segja, sem bönd þessi hafi sín upptök frá hliðum legsins, og gánga þau eins og vængir þaðan út að hliðarveggjum grindarinnar, og festast þar, og með þessu móti halda þau leginu í skorðum.

Í efri röndinni á böndum þessum eru til beggja hliða *eggjakerfin* og *legpípurnar*.

*Eggjakerfin* eru tvö, sitt til hvorrar hliðar, þau eru aflaung, hvítleit, og á stærð við hnot. Innan í þeim eru litlar blöðrur nokkrar, og eru það eggin áður enn frjófgunin verður. Á 7 myndinni má sjá eggjakerfin,

og er annað þeirra (g) eins og það á að sjer að vera, en hitt (g') er skorið í sundur í miðjunni á flatveginn.

*Legpípurnar* eru tvær mjóar pípur, úr himnum, svo sem þrír þumlúngar á leingd; þær hafa upptök sín til beggja hliða úr legbotninum, eins og áður er sagt, og gánga þær þaðan í bugðum út í grindarholið, og enda þær þar. Verður þá á endum þeirra op nokkurt, og er það stærra, enn hitt opið, er gerir samgaungin millum þeirra og legbotnsins. Um op þetta, er veit út í grindarholið, liggur nokkurskonar kögur, og er það kallað *legpípnakögrið.* Um innra opið eru samgaung millum legpípnanna og legholsins, eins og áður er sagt. Á myndinni 7 má sjá legpípuna vinstra megin (e) eins og hún er eptir eðli sínu, en hin legpípan (e'), hægra megin er skorin í sundur eptir endilaungu. Legpípnakögrið er sýnt beggja vegna með f.

Eggjakerfin geyma í sjer eggin áður enn frjófgunin fer fram. En þá er þau eru frjófguð, losnar eggið við kerfið, og tekur þá við því legpípnakögrið, og flyzt það svo um legpípuna inn í legholið. Verður yfirsetukonan að setja þetta á sig, til að geta gjört grein fyrir óeðlilegri þykkt, þá er eggið eigi hefir komizt inn í legholið.

### III. *Leggaungin og partar þeir, er liggja í grend við þau í grindarholinu.*

9da gr.

**Leggaungin** (myndin 7 i) eru gaung nokkur, er liggja í

bugðu, og myndast þau úr holdtrefjum, og ná frá barnsleginu niður eptir út að hinum ytri fæðíngarpörtum. Þau eru millum þriggja og fjögra þumlúnga laung, þó svo, að þau ná leingra upp að að aptan enn að framan. Að ofanverðu verða leggaungin sem oplaus hvelfíng nokkur þar er þau festa sig í kríngum leghálsinn, en hinn neðri hluti hans og legopið hángir niður í þau. Hinn neðri endi leggánganna nær út í millum blygðunarbarmanna, og er þar á þeim hið svo nefnda *leggángaop*, sem hjá meyjum er að nokkru leyti lokað af himnu nokkurri, er kölluð er *meyjarhaptið*. Að innan eru leggaungin bæði á fremri og aptari hliðinni alþakin hrukkum, en úr þeim kemur slímvökvi, er heldur leggaungunum þvölum, og í fæðíngunni teygist úr hrukkunum, og verða þá leggaungin þeim mun víðari. Hrukkurnar eru þykkvastar að framan, og eru þær þar og mest viðkvæmar; skal því yfirsetukonan, þá er hún ransakar konuna gjæta þess, að láta fínguriun fylgja aptari hliðinni. Hin fremri hlið leggánganna er áföst við blöðrupípuna, er liggur rjett fyrir framan þau, og eins við nokkurn hluta af sjálfri blöðrunni. En hvað viðvíkur bugðum leggánganna, þá samsvara þær með öllu vindíngnum á grindinni, og er áður skýrt frá honum.

## 10da gr.

Auk legsins með eggjakerfunum og legpípunum, og leggánganna, er enn í grindarholinu: hlandblaðran með blöðrupípunni, og endagörnin, og sökum þess að partar

þessir liggja á bakvið og fyrir framan fæðíngarpartana eru þeir nefndir *hinir kríngumliggjandi partar í grindarholinu.*

*Blaðran* liggur fyrir framan legið, rjett fyrir aptan blöðrubeinið. Hún tekur á móti þvaginu, er kemur úr nýrunum, og losast hún aptur jafnóðum við það á þann hátt, að það fer um blöðrupípuna úr líkamanum. Þá er blaðran verður of full, þenst hún svo út, að finna má til hennar utan á kviðnum fyrir ofan efri rönd blöðrubeinsins. Úr neðra hluta blöðrunnar geingur *blöðrupípan*, og liggur hún og fyrir framan leggaungin, og þaðan niður eptir allt til bogans undir blöðrubeininu, og er hið neðra op hennar millum hinna ytri fæðíngarparta.

*Endagörnin* er neðsti hluti garnanna; hún liggur á bakvið legið og leggaungin, fram með fremra fleti spjaldsins, og endar hún að neðanverðu fyrir framan typpið í þarfagánginum.

---

## ANNAR KAPÍTULI

## um hina ytri fæðíngarparta og brjóstin.

### 11ta gr.

Með hinum ytri fæðíngarpörtum eru taldir *blygðunarpartarnir* og *holdbrúin.*

I. *Blygðunarpartarnir* eru þessir:

*Blygðunarhæðin*; myndast hún úr húðinni á blöðru-beininu á þann hátt, að hún verður öll miklu þykkri á þessum stað. Hún er þakin hárum á gjafvaxta konum.

Neðan undir blygðunarhæðinni, til beggja hliða, eru tvær þykkar skinnhrukkur eða hinir svo nefndu *stóru blygðunarbarmar*, og ná þeir niður eptir allt aptur að holdbrúnni. Hjá meyjum eru barmar þessir fastir í sjer, og liggja því nær saman, en hjá konum, er barn hafa alið, eru þeir fremur lausir í sjer og tognaðir, svo á millum þeirra verður bil nokkurt, og má sjá hina minni barmana innan undir þeim. Að aptan, fyrir framan holdbrúna, skeytir barmana saman lítil skinnmön nokkur, er optast slitnar í sundur þá er konan fæðir í fyrsta sinn.

Fyrir innan hina stóru blygðunarbarma eru hinir *minni blygðunarbarmar* eða *þvagbarmarnir*. Eru það rauðleitar skinnhrukkur, minni enn ytri barmarnir, og að ofanverðu, þar er þeir koma saman, myndast úr þeim *sepinn*.

Þá er maður víkur þvagbörmunum til hliðar, mjá sjá á millum þeirra *opið á leggaungunum*, og fyrir ofan það, en litlu fyrir neðan sepann, er *blöðru-pípuopið*; leggángaopið er kringlótt, og myndast eins og nokkurskonar barmur í kríng um það úr smáum skinnhrukkum.

II. *Holdbrúin* er breið mön úr skinni og holdi, er þekur bilið millum leggángaopsins og endagarn-

arinnar, eða með öðrum orðum, nær frá hinum aptari hluta hinna stóru barma aptur að þarfagánginum. Holdbrú þessi lokar að nokkru leyti neðra op grindarholsins, og skal yfirsetukonan því gjæta vel og vandlega að henni í fæðíngunni.

## 12ta gr.

Enn fremur má segja að *brjóst* kvenna standa í nánu sambandi við fæðíngarpartana, og á meðan á meðgaungutímanum stendur verða brjóstin svo undirbúin, að þau eptir fæðínguna mega veita barninu næríng.

Á barnsaldrinum er einginn mismunur á brjóstum á sveinbörnum og meybörnum, heldur vaxa þau fyrst á meyjum, þá er líður að þeim tíma, er þær verða gjafvaxta; brjóstin vaxa þá sitt hvoru megin, lík hálfhnöttum, og er skinnið á þeim einka mjúkt og hvítt, og á miðjunni er *geirvartan*; er hún rauð á lit og viðkvæm, og umhverfis hana liggur dökkrauður *hríngur*.

Innan undir skinninu liggur sjálfur *brjóstkirtillinn*; í honum myndast mjólkin, en hún flyzt þaðan um smáar pípur, eða hin svo nefndu *mjólkurgaung* út til hinna smágerðu opa á geirvörtunum.

## ÞRIÐJI KAPÍTULI.

## Um ransókn fæðíngarpartanna.

### 13da gr.

Til að komast eptir hvernig fæðíngarpartarnir eru á sig komnir, og hver umbreytíng verður á þeim um meðgaungutímann eða í fæðíngunni, og þá er konan liggur á sæng, þarf yfirsetukonan að *kanna* þá, og má slíkt verða með áþreifíng, og er sú aðferð algeingust, stundum með sjóninni, en skjaldan er heyrnin við höfð til þess. Opt má það og verða, að yfirsetukonan hlýtur að kanna fæðíngarpartana eigi einúngis þá svo stendur á, sem áður er greint frá, heldur og þá er konan kann að verða sjúk, o. fl. þk.; má og vera að henni sje það á stundum boðið af yfirvöldunum, og er hún þá skyld til að láta álit sitt í ljósi um ástand konunnar. Það er því með öllu auðsætt, hve mikils áríðandi slík ransókn þessara parta er, og reynslan hefur allajafna sýnt og sannað, að þesskonar handlægni, er yfirsetukonan hefur aflað sjer bæði með ástundan og æfíng, er talin með hinum helztu kostum góðrar yfirsetukonu.

Ransóknin getur verið með tvennu móti, annaðhvort *útvortis* eða *innvortis*, eptir því hvort farið er höndum um líkamann utan eða um hina innri parta. Að utanverðu er kviðurinn optast kannaður og stökusinnum hinir ytri fæðíngarpartar, mjaðmagrindin og brjóstin. Ransókn hinna innri fæðíngarparta fer optast

nær fram um leggaungin, og einka skjaldan um endagörnina.

### 14da gr.

Kanna má konuna með þrennu móti, *standandi*, *sitjandi* eða *liggjandi*. Almennt er það álitið bezt, að konan *standi* þá er kanna skal hina innri fæðíngarparta, ef hún er með barni, eða í byrjun fæðíngarinnar, og eins þá hún eigi er barnshafandi. Skal þá konan setja bakið upp við vegg nokkurn, og heykjast nokkuð í hnjánum, en yfirsetukonan tekur sjer stöðu fyrir framan hana, og leggst á annað hnjeð, og kannar svo með annari hendinni, en hinni heldur hún á lendum eða kvið konunnar, eptir því sem á stendur.

Þá er er kanna skal kviðinn að utan, fer bezt að konan *liggi*, og á hinn bóginn skal einúngis kanna konuna *liggjandi* seint í fæðíngunni, og þá er hún liggur á sæng. Bezt fer að konan liggi á bakið, og beygi hnjen og kreppi þau nokkuð, en yfirsetukonan stendur eða situr við hliðina á henni, annaðhvort á rúmstokknum eða á stól.

Einúngis þá er konan hvorki þolir að liggja nje standa skal ransaka hana *sitjandi*. Skal hún þá sitja á stól og halla sjer aptur á bak, á þann hátt, að holdbrúin standi fram af stólsetunni, svo hægt sje að hræra höndina eins og þurfa þykir. Rádandi er til að yfirsetukonan standi á hnjánum fyrir framan konuna þá svo er að farið.

## 15[da] gr.

Almennt er að *kanna kviðinn* með annari hendinni, og stökusinnum með þeim báðum, og er aðferðin þessi: leggja skal lófann flatan á blöðrubeinið; þess ber að gjæta, að höndin sje heit. Þaðan skal færa höndina upp eptir og til beggja hliða, og skal þá um leið taka nákvæmlega eptir því, hve mjög kviðurinn er útþaninn, einnig eptir ásigkomulagi naflans, stærð barnslegsins, og legu þess og mynd, hvort það er hart eða mjúkt viðkomu, og eins eptir hræríngum burðarins, o. fl. þh. Þá er mest þykir undir því komið að komast glöggt eptir hræríngu burðarins, þá má slíkt bezt verða á morgnana áður konan er komin á fætur, og skal í því skyni, mót almennri venju, kanna með kaldri hendi, því þá svo er með farið finnst betur til hræríngarinnar, enn annars mundi verða með henni heitri. Þess ber og allajafna að gjæta, að konan hafi hægt sjer til baks og til kviðar áður enn ransókn fer fram.

*Hina ytri fædíngarparta* má beinlínis kanna að utanverðu með áþreifíng, og stökusinnum þarf að taka sjónina til aðstoðar; en þá *brjóstin* eru könnuð, er venjulegast að við hafa til þess einúngis sjónina.

Til að *kanna* konuna um *leggaungin* er títt að fara einúngis með vísifíngurinn inn í þau; og svo það gángi því liðugar og hægar, og varúðar vegna, skal smyrja fínguriun áður í viðsmjöri (olíu) eða floti eða ósöltuðu smjöri, og skal yfirsetukonan temja sjer jafnt báða vísifíngurna, en þànnig skal með

fara: að neðan og upp eptir skal skilja að barmana með hliðinni á vísifíngrinum og þessu jafnframt fara með hann inn í leggángaopið. Því næst skal snúa svo fíngrinum og hendinni við, að bakið snúi niður að holdbrúnni. Að svo búna skal nú liðka vísifínguriun hægt og hægt upp eptir leggaungunum, og skal hann fylgja aptari hlið þeirra, en þumalfíngurinn skal leggja endilángan upp á blöðrubeinið, en hina þrjá fíngurna skal kreppa í lófann; en um leið og yfirsetukonan fer með vísifíngrinum um leggaungin, tekur hún eptir, hvernig þau eru á sig komin, og þá er hún er komin efst upp í þau, skal hún beygja *fíngurgóminn* nokkuð fram á við, og til hliða, og kannar hún þá um leið legopið og leghálsinn, og ef á fæðíngunni stendur, kannar hún og með sögðum hætti þá parta eggsins og burðarins, er liggja rjett fyrir innan legopið. Þá er þessari ransókn er lokið, skal yfirsetukonan leita fyrir sjer með vísifíngrinum, að svo miklu leyti henni er unnt, á alla vegu i grindarholinu, og vita hvort hún eigi verður vör við annaðhvort þreyngsli eða missmíði á lögun grindarholsins. Að svo búnu dregur yfirsetukonan fíngurinn að sjer úr leggaungunum, en um leið skal hún þó taka eptir boganum eða bugðunni undir blöðrubeininu, og vita um hvort hann er eins hríngmyndaður, og hann á að sjer. Þess ber að gjæta, að miklu varðar, þá konan er þannig ransökuð, að hún hafi rjett á undan hægt sjer til baks og til kviðar, svo ransóknin megi vel takast.

Mjög skjaldan og einúngis þá er fæðíngin er torveld, er *öll höndin* höfð til að kanna leggaungin, og sjerílagi ber nauðsyn til slíks, þá er burðurinn liggur skakkur, og fíngurinn einn er ónógur til að kanna með. Um leið er þá og optast nær, þá svo stendur á, burðinum snúið, og fyrir þá sök hljótum vjer á þessum stað að vísa til þess kafla í bókinni, er greinir um, þá er burðinum er snúið, og er þar um leið skýrt frá, hvernig að skal fara, þá er öll höndin er höfd til að kanna með.

*Ransóknin um endagörnina* er skjaldan við höfð, en þó má það verða þá er henni eigi verður komið við um leggaungin, eða þá er með þessu móti hægar og nákvæmar verður komizt eptir ásigkomulagi legsins, enn verða mundi annars vegar, og glöggvar feingin vissa um, hvort það er í skorðum sínum. Fyrst skal setja konunni stólpípu, og tæma endagörnina, og síðan skal kanna með vísifíngrinum; skal smyrja hann utan, og liðka hann því næst eigi all-linlega inn í þarfagánginn, svo lángt upp eptir, sem verða má, og skal hann fylgja fremri hliðinni á endagörninni, og má þannig finna til bakflatarins á leginu. Meðan á ransókninni stendur skal konan annaðhvort liggja á bakið eða á annarihvorri hliðinni, og hafa hátt undir sitjandanum og kreppa hnjen að sjer.

## 16da gr.

Eins og áður er skýrt frá, er sjónin einúngis höfð til að aðstoða tilfinnínguna, þá er brjóstin eru ransök-

uð, og stökusinnum, þá er hinir ytri fæðíngarpartar verða sjúkir, en aðstoð eyrnanna er einúngis í því fólgin, að eptir miðjan meðgaungutímann má heyra hjartslátt burðarins, þá er maður leggur eyrað við kviðinn á konunni, og má þann veg komast eptir, að líf er með burðinum, og sjálfsagt er að svo má og vita með vissu, að konan er með barni. I því skyni skal, eins og áður er á vikið, leggja eyrað við hinn neðra hluta kviðarins á konunni, og má þann veg heyra stundum glöggt nokkurskonar hljóð, sem líkist því, þá er maður heyrir til sigurverks áleingdar. Yfirsetukonan getur eigi með þessum hætti komizt eptir öðru enn því, er nú hefur verið sagt, en lækninn, sem enn fremur hefur við til þessa einskonar heyrnarpípu, má hafa meira gagn af heyrninni.

## 17da gr.

Enn fremur skal yfirsetukonan í hvert skipti, er ransókn fer fram, gjæta þess, er hjer segir:

Kanna skal konuna í hvert skipti með mestu hlífð, og gjæta þess, að blygðunartilfinníng hennar eigi sje ofboðið, hvort heldur hún er gipt eða ógipt. Fyrir þá sök skal yfirsetukonan láta hana hylja sig með klæðum, að svo miklu leyti verða má, og eigi um skör fram hafa sjónina sjer til aðstoðar, þá er áþreifíng ein er nóg, og eins ber þess að gjæta, að eigi sjeu fleiri við staddir ransóknina, enn nauðsynlegt er.

Þá er konan er bæði hrædd og óreynd í þessum efnum, mun bezt fara að halda eigi hinni fyrstu ransókn

of leingi fram, heldur mun ráðlegt, eptir nokkurn tíma liðinn að hefja hana að nýju, og kynna sjer með þeim hætti gjörr ásigkomulag konunnar.

Þá er yfirsetukonan kemst að því, að konunni er nokkur hætta búin, skal hún einkum gjæta þess, að láta slíkt eigi á sjer skilja við konuna, hvorki í orðum nje aðferð, svo hún verði eigi hrædd; en yfirsetukonan skal þá gjöra lækninum njósn um það. Að öðru leyti skal hún öldúngis þegja um slíkt, en það er þó sjálfsagt, að eigi skal hún leyna því þá, er hlut eiga að; enn hitt er víst, að opt má verða, þá svo stendur á, að lausmælgi kemur að miklu tjóni.

Þá er yfirsetukonan getur eigi með vissu komizt eptir ásigkomulagi konunnar við ransóknina, skal hún heldur eigi fullyrða nokkurn dóm sinn, og skjóta heldur úrlausn á frest, til þess hún hefur ransakað konuna að nýju; að öðrum kosti skal hún skjóta til læknis úrskurðar. Verður slíkt því fremur skylda yfirsetukonunnar, þá er yfirvöldin beiðast álits hennar.

Sökum þess, er nú hefur verið sagt, er auðsætt, að yfirsetukonan á að fara vel með höndurnar á sjer, og skal hún því, sem mest hjá verður komizt, hliðra sjer hjá stritvinnu, því við það verða fíngurnir harðir, og sigg kemur í þá, og verður þá tilfinníngin eigi jafnnæm í þeim. Hún skal og jafnan skera neglurnar á sjer, og sjá svo um, að eigi sjeu rispur eða sár á fíngrunum, því slíkt má verða að miklu tjóni þá er hún skal ransaka þá konu, er hefur næman siúkdóm.

# Annar þáttur.

## Um meðgaungutímann.

---

### FYRSTI KAPÍTULI

### Um meðgaungutímann og hvernig honum er skipt.

#### 18da gr.

*Meðgaungutími* er kallað tímabilið frá því er konan verður barnshafandi, til þess hún er búin að fæða. Meðgaungutíminn byrjar því þá er eitt af eggjum þeim, er geymast í eggjakerfinu, frjófgast, en það losnar þá um leið úr kerfinu sjálfu, og flyzt svo um legpípurnar inn í legholið. Það er ætlunarverk meðgaungutímans að eggið og burðurinn verði fullþroska meðan á honum stendur; meðgaungutíminn endar þá er fæðíngin tekur við.

#### 19da gr.

Það er almennast, að einúngis eitt egg verður frjófgað, er síðan þróast og dafnar í legholinu án nokkurs meins fyrir konuna eða burðinn; slík þykkt er því kölluð *eðlileg*. Þó má og verða, að opt bregði út af þessu, og það með mörgum hætti, og koma af því hinar svo nefndu *óeðlilegu þykktir* kvenna.

Þannig segja menn að þá fari eigi með öllu eðlilega, þá er tvö eða fleiri frjófguð egg á sama tíma finnast í legholinu, svo sem þá er konan geingur með *tvíbura* eða *þríbura*.

Það er og *óeðliley þykkt*, þá er hið frjófgaða egg reyndar losnar úr eggjakerfinu, en fer á mis við legholið, og nemur svo staðar, án þess þó að komast inn í það, annarstaðar í kviðnum, og vex þar og dafnar. Þetta ber skjaldan að, sem betur fer.

I þriðja lagi verður þykktin óeðlileg, þá er hið frjófgaða egg reyndar kemst inn i legholið, en veikist skömmu síðar, og eðli þess breytist svo mjög, að hinir einstöku partar þess eru því nær ókennilegir, þá er það seint og síðar kemur í ljós. Þá er svo fer segja menn að þykktin sje óeðlileg, og eggið eins að sínu leyti. Þá er bæði *eðlilegt* og *óeðlilegt* egg eru í legholinu er þykktin eins að sínu leyti bæði *eðlileg* og *óeðlileg*.

Enn fremur má geta þess, að þykktin verður og óeðlileg með þeim hætti, að burðurinn eigi verður fullþroska, eða hann deyr með öllu, þá er konan leggst hættulega veik.

Frá hinni óeðlilegu þykkt kvenna skal síðar skýrt nákvæmur; enn sem komið er verður einúngis gert ráð fyrir að allt fari eðlilega.

---

## ANNAR KAPÍTULI

## skýrir frá hvernig allt ásigkomulag konunnar breytist um meðgaungutímann.

### 20sta gr.

Það mun öllum auðsætt, að þá er konan verður barnshafandi, muni hið líkamlega ásigkomulag hennar breytast með öllu, og eigi líði henni jafnvel og áður. Það er því yfirsetukonunni mjög svo áríðandi, nákvæmlega að taka eptir og kynna sjer allar slíkar breytíngar, hverjar þær eru, og með hverjum hætti þær optast sýna sig, fyrir þá sök, að hún að nokkru leyti hlýtur að ráða af breytíngum þessum, eptir því, hvort þær sýna sig, eða þær koma ekki í ljós, hvort konan er með barni, eða ekki.

Einkum breytist legholið um meðgaungutímann, hinn mjúki fæðíngarvegur og brjóstin; þó breytist og eigi all-lítið um meðgaungutímann bæði útlit konunnar, og eins líður henni eigi jafnvel og annars, eins og áður er sagt.

### 21sta gr.

1) Legholið breytist um meðgaungutímann, bæði stærð þess og lögun, og eins færist það að nokkru leyti úr skorðum sínum.

Hægast má komast eptir, hversu mikið legið *stækkar* um meðgaungutímann, með því að bera saman leingd og breidd þess þá er konan er þúnguð og þá er hún eigi er með barni. Hjá þeirri konu, sem eigi er barns-

hafandi, er leingd þess hjerumbil 3 þumlúngar, og breiddin 2 þumlúngar þar sem það er breiðast, en seint á meðgaungutímanum verður leingd þess 12—13 þumlúngar, og breiddin 9—10. Er slíkt og með öllu nauðsynlegt, til þess barnslegið megi rúma hið fullþroska egg og burðinn. Eins og nærri má geta, vex legið eigi svo mjög allt í einu, heldur smátt og smátt, frá hinum fyrsta til hins síðasta hluta meðgaungutímans, þó svo, að um fyrri helmíng meðgaungutímans vex einúngis eða stækkar legbotninn og legbolurinn, en úr því sá tími er liðinn, víkkar og leghálsinn eins að sínu leyti.

Hvað *lögun* legsins viðvíkur, þá er áður greint frá henni að nokkru leyti, en á þessum stað má enn fremur geta þess, að hún breytist meir og meir um meðgaungutímann, eptir því sem legið sjálft stækkar og víkkar á allar hliðar, á þann hátt, að legið um síðustu mánuði meðgaungutímans hefur því nær feingið eggmyndaða lögun, og er það breiðara að ofanverðu um legbotninn, en mjórra að neðanverðu um legopið. Legopið sjálft breytist og, því á hinum fyrstu mánuðum meðgaungutímans verða barmar þess þegar jafnlángir, og í staðinn fyrir þá lögun þveropsins, sem áður greinir um, verður það nú því nær kringlótt, og eins og kiprað saman.

Legið *færist* úr *skorðum sínum*, en slíkt fer eptir því, hve lángt er liðið á meðgaungutímann. Um fyrstu mánuðina, þá er legið verður þýngra, enn það á að

sjer, sökum þess að mikið blóð streymir að því, færist það leingra niður í grindarholið, og má slíkt ráða bæði af flatneskju nokkurri, sem verður fyrir ofan blöðrubeinið, og eins kemst legopið leingra niður í leggaungin. En um lok þriðja mánaðarins er legið þegar orðið svo stórt um sig, að það kemst ekki leingur fyrir í litla grindarholinu, og fyrir þá sök fer efri endi þess jafnóðum að færast upp í hið stóra grindarhol, á þann hátt, að á fjórða mánuðinum má finna til legbotnsins fyrir ofan röndina á blöðrubeininu. Því meir sem legið stækkar á þenna veginn, þess leingra færist það upp eptir kviðnum, svo að á níunda mánuði er legbotninn kominn allt upp undir hjartagróf, en á tíunda mánuðinum sígur legið niður aptur, að nokkru leyti vegna þess, að burðurinn er þá orðinn svo stór og þúngur, en þó einkum fyrir þá sök, að legið fer jafnóðum að kiprast saman eptir því sem líður nær fæðíngunni.

Þá er nú legið þannig spennist upp eptir, eða með öðrum orðum færist upp úr litla grindarholinu upp eptir hinu stóra grindarholi, þrýstir búngan á spjaldinu legbotninum fram á við í kviðnum sjálfum, og þessi lega þess helzt þannig um allan meðgaungutímann, þó svo að það sveigist meir og meir fram á við. Sökum þessa má um leggaungin glöggt finna með fingrinum að legopið eins og sveigist á bak aptur í grindarholinu; en vegna þess að legið sjálft spennist svo lángt upp eptir kviðnum, er opt torvelt

að ná, og stundum með öllu ónáandi upp til legopsins með fingrinum, um hina síðustu mánuði meðgaungutímans. Auk þess að legbotninn liggur fram á við, eins og áður er skýrt frá, er þess og að gjæta, að á hinum síðustu mánuðum af meðgaungutímanum hallar honum eigi all-lítið til annararhvorrar hliðar í kviðnum, optast þó til hægri hliðar, og þessvegna sveigist og legopið eigi all-skjaldan út á vinstri hliðina í leggaungunum. Þetta er reyndar eigi mjög áríðandi að vita, en einúngis ber að hafa það í huga til þess yfirsetukonan haldi eigi, að halli þessi á leginu sje óeðlilegur.

22ur gr.

2) Breytíngar þær, er verða á **hinum mjúka fæðíngarveg,** sýna sig fyrst glöggt, þá er leingra er liðið á meðgaungutímann, en tilgángur þeirra er einkum sá að gjöra fæðínguna auðveldari. Þannig víkka leggaungin og verða öll þvalari, enn venja er til, og hrukkurnar innan í þeim verða mýkri viðkomu og þykkari; einnig verða hinir ytri fæðíngarpartar mýkri og þykkari, og meira blóð streymir að þeim. Kemur slíkt að góðu haldi, fyrir þá sök að því betur þola þeir teygínguna í fæðíngunni.

23ja gr.

3) Bæði fyr og glöggvar ber á breytíngum þeim, sem verða á **brjóstum** konunnar. Þegar á fyrstu mánuðum af meðgaungutímanum verða brjóstin stærri og þrýstnari og viðkvæm þá er þrýst er á þau, og opt

ber við, að konan finnur til sárra stíngja hjer og hvar í þeim; skömmu síðar verða geirvörturnar stærri, og bugurinn í kríngum þær verður allur dökkvari, enn áður; á hinum síðara helmíng af meðgaungutímanum kemur vökvi í brjóstin, sem líkist mjólk, og rennur hann stundum af sjálfu sjer út úr þeim.

24da gr.

4) Breytíngar á *öllu heilsufari* og *útliti* konunnar, eru sumpart þesskonar, að þær sýna sig að mestu leyti hjá öllum konum með barni, sumpart þesskonar, að þær koma stundum í ljós, en stundum ekki, og í sitt skiptið á hvern hátt Með hinum fyr greindu breytíngum teljum vjer: að tíðirnar hætta, kviðarþykktina, og breytínguna á naflaholunni. En með hinum síðari má telja: ógleði konunnar og magnleysi, velgju og uppköst, einkum á morgnana á hinum fyrstu mánuðum af meðgaungutímanum; sumar konur fá verk í tönnurnar og höfuðið, hjartslsátt og andþreyngsli, og lystarleysi á mat, stundum fá þær sjerlegan leiða eða laungun á einhverjum mat eða drykk, skap þeirra breytist, þær verða opt fálátar og köst detta í þær; bólga eða æðahnútar koma á fæturna og lærin eða á fæðíngarpartana, litarhátturinn breytist, dökkvir blettir sýna sig hjer og hvar á líkamanum, o. fl. þh.

Þá er vjer nú þannig höfum kynnt oss hinar markverðustu breytíngar, er sýna sig hjá konunni um

meðgaungutímann, viljum vjer nú sjerílagi greina frá, með hverjum hætti eggið og burðurinn þróast og dafnar í legholinu.

---

## ÞRIÐJI KAPÍTULI
## um eggið og burðinn.

### 25ta gr.

Fuglaegg þekkja allir. Hver og einn þekkir og mismuninn á eggjaskurminu og því, sem það geymir í sjer, og veit að fuglsúnginn myndast smámsaman og þroskast í egginu, meðan fuglinn liggur á því. Þetta má nú og heimfæra upp á konueggið, því hinu sama verður framgeingt í hvorutveggju eggjunum, og öldúngis með líkum hætti, nema hvað fuglseggið er eigi í móðurkvið, eins og konueggið, og fyrir þá sök má jafna saman meðgaungutímanum og þeim tíma, fuglinn er að únga út.

Burðurinn myndast þannig einnig í eggi nokkru í móðurkvið, og er hann hulinn inn í því allt að fæðíngunni. Á konuegginu má að sínu leyti eins og á fuglsegginu aðgreina *skurmið* eða hina *ytri parta* eggsins, en það eru himnurnar og legkakan, og hina *innri parta* þess, eða *það*, er himnur þessar *geyma í sjer*, og eru það burðurinn, naflastreingurinn og legvatnið.

### I. *Hinir ytri partar eggsins.*

### 26ta gr.

Þessir ytri partar eggsins eru, eins og áður er sagt, himnurnar eða belgirnir og legkakan, og eru þeir í því sambandi sín á milli, að ímynda má sjer, að legkakan sje partur nokkur af þeirri hliðinni á hinni svo nefndu æðahimnu, sem snýr út í legið og sem er orðin þykk og föst í sjer á þessum stað.

Í fyrstunni, þá er eggið losnar frá eggjakerfinu, eru **belgir** þess eða **himnur** einúngis tvær, hin ytri eða *æðahimnan*, og hin innri eða *vatnshimnan*. En utan um himnur þessar myndast í leginu sjálfu hin þriðja himna, er teingir legið að innanverðu við eggið, og mundi mega kalla hana *leghimnuna* til aðgreiníngar frá hinum himnunum. Himna þessi, er nú gat eg um, er þykkust á hinum fyrstu mánuðum af meðgaungutímanum, og ber því opt við, að hún hjúpar eggið ef konan lætur því á þessum mánuðum. Þá er líður á meðgaungutímann eyðist hún smámsaman, og eptir fæðínguna má einúngis sjá nokkrar trefjar eptir af henni utan á æðahimnunni, en hitt verður eptir í leginu og fylgir síðar blóðinu, er konan missir meðan hún liggur á sæng.

*Æðahimnan* er þessvegna í fyrstunni hin ytri himna eggsins, og er hún svo nefnd sökum þess, að um hana liggja margar æðar. Fyrst á meðgaungutímanum er hún að utan öll alþakin trefjanöbbum, er smámsaman hverfa síðar af sjálfu sjer, en þar er legkakan síðar myndast

sitja þeir kyrrir Á þessum stað verða trefjanabbar þessir meir og meir þjettsettir og innan um þá og millum þeirra festir sig fjöldi æða, er sumpart koma frá æðum burðarins um naflastreinginn, en sumpart frá legæðunum, og eru það þá kvíslir úr æðum leghimnunnar; þannig myndast legkakan við lok hins þriðja mánaðar.

Innan undir æðahimnunni liggur *vatnshimnan*; er hún svo nefnd sökum þess hún liggur næst legvatninu. Himna þessi er næfurþunn og gagnsær, þó er hún seigari í sjer, enn æðahimnan. Hún myndar hulstur nokkurt, sem er með öllu lokað á allar hliðar, og geingur hún úr legkökunni yfir naflastreinginn, og hjúpar hún hann allt að kvið burðarins.

Í fæðíngunni, þá er himnur þessar fylgja með burðinum, liggja þær á öllum stöðum hvor áföst við aðra án þess nokkurt bil sje á milli þeirra. En fyr á meðgaungutímanum er þó bil á millum þeirra, sem geymir í sjer vatnilíkan vökva, er þó síðar eyðist með öllu. Stundum, en þó all-skjaldan, er nokkur hluti vökva þessa enn eptir undir lok meðgaungutímans, en hann hverfur þá annaðhvort litlu fyr eða rjett í því að konan leggst á gólf, á þann þátt, að einúngis æðahimnan rifnar. Þá er svo fer segja menn, að himnan *rifni óeðlilega*, til aðgreiníngar frá því, þá er báðar himnurnar rifna í senn í fæðíngunni; og vökvi sá, er kemur í ljós þá er æðahimnan ein rifnar, er og kallaður

*óeðlilegt legvatn*, til aðgreiníngar frá hinu rjetta legvatni innan í vatnshimnunni.

27da gr.

Áður er skýrt frá hvernig **legkakan** myndast. Hún er flöt, nokkurnveginn kríuglótt eða stundum nokkuð aflaung og njarðvattarmynduð, hjerumbil 6 til 8 þumlúngar eptir endilaungu, og frekast einn þumlúngur á þykkt. Hún er þykkust í miðjunni, en þynnist svo út á alla vegu. Aðalefnið í legkökunni eru æðarnar, sem liggja í hana sumpart úr burðinum, sumpart úr sjálfu leginu, og á millum þeirra liggur holóttur trefjavefur. Sá flötur kökunnar, sem snýr inn að egginu, er hulinn af báðum egghimnunum. Flötur þessi, sem er kallaður hinn *innri flötur*, verður þannig háll viðkomu, en hinn flöturinn, sem snýr út í legið og nefndur er *ytri flöturinn*, er alþakinn ójöfnum og sepum. Hjerumbil á miðjunni á þeim fleti legkökunnar, sem snýr inn að, má sjá að naflastreingurinn geingur inn í hana, og út frá þessum stað gánga stórar æðar í kvíslum á allar hliðar, líkt og geislar af stjörnu nokkurri. Hinn ytri flötur legkökunnar er teingdur við legið með fjölda smárra æða, og flytja þær blóðið um leghimnuna úr leginu inn í legkökuna. Þannig er legkakan optast teingd við legið um botn þess, sjaldnar við fremri eða aptari flöt legholsins, og sjaldnast við leghálsinn eða fyrir ofan legopið.

Legkakan teingir að nokkru leyti eggið við legið;

en þó er aðal ætlunarverk hennar að koma því til leiðar, að burðarblóðið, sem flyzt um naflastreinginn inn í legkökuna, megi svo breytast í henni með því að blandast á þessum stað við blóðið úr leginu, að það megi verða hæfilegt til að næra burðinn, en að því búnu flyzt það aptur um naflastreinginn til burðarins. Það má því með sanni segja, að legkakan búi til blóðið til næríngar burðinum, og fyrir þá sök er hún svo mjög áríðandi fyrir burðarlífið.

Legkakan og með henni nokkrir partar af naflastreingnum og himnunum kemur fyrst í ljós eptir fæðínguna, og eru fyrir þá sök partar þessir einu nafni kallaðir *fylgjan*.

## II. *Hinir innri partar eggsins.*

### 28da gr.

Hinir innri partar eggsins eru, eins og áður er skýrt frá, legvatnið, naflastreingurinn og burðurinn.

**Legvatnið** er vökvi nokkur, þunnur, kvoðukenndur, gulleitur; hann fyllir vatnshimnuna, og burðurinn og naflastreingurinn svo sem fljóta í honum. Vökvi þessi er eigi jafnmikill hjá öllum konum, og eigi heldur er hann jafnmikill á öllum köflum af meðgaungutímanum. Um lok meðgaungutímans er vökvinn millum tveggja og þriggja marka. Vökvi þessi hefur sitt ætlunarverk bæði um meðgaungutímann, og í fæðíngunni. Um meðgaungutímann þenur hann hol legsins jafnt út

á allar hliðar, og þannig má burðurinn án tálmunar hræra sig, og að nokkru leyti kemur vökvi þessi því til leiðar, að burðurinn eigi skaddast, þá er kvið konunnar er upp á einhvern hátt hastarlega ofboðið. Í fæðíngunni rekur vökvinn meðan á hríðunum stendur himnurnar niður í legopið, og eru þær þá útþandar eins og uppblásin blaðra, en um leið víkka þær legopið út, og með þessu móti greiðist leið burðarins, þá er að því kemur. Þá er nú legopið er orðið svo útþanið, sem verða má, er legvatnið til einkis gagns úr því; rifna þá og himnurnar, og vatnið rennur út. Þannig fer allt eðlilega, en áður er skýrt frá því þá er himnurnar rifna óeðlilega, og óeðlilegt legvatn rennur út.

## 29da gr.

**Naflastreingurinn** eða lækurinn teingir burðinn við legkökuna; líkist hann streing nokkrum, sem snúinn er saman úr mörgum þáttum. Utan um hann liggur himna nokkur, seig í sjer, sem, eins og áður er sagt, er einn hluti vatnshimnunnar. Innan undir himnu þessari, í sjálfum naflastreingnum, liggja eptir honum endilaungum hinar þrjár naflaæðár. Ein þeirra er stærst, og er það blóðæðin; hinar eru minni, og eru það slagæðarnar, og má finna til blóðstraumsins í þeim að sínu leyti eins og í slagæðinni á hendinni. Æðar þessar liggja svo, að blóðæðin er innst, en utan um hana leggja sig á misvíxl slagæðarnar, og fyrir þá sök sýnist nafla-

streingurinn eins og snúinn saman. Í millum æðanna og utan um þær (innan undir naflastreingshimnunni) liggur fitulag nokkurt, sem verndar þær, svo þeim verði eigi ofboðið. Ýmist er fitulag þetta meira eða minna, og er undir því komið hve gildur naflastreingurinn er. Þessvegna segja menn að naflastreingurinn sje *feitur*, þegar mikið er af fitu þessari um hann, en *magur* eða *rauðleitur*, þá er lítið er af henni; má þá og sjá blóðið í gegnum æðarnar, og verður þá naflastreingurinn mjög svo rauðleitur, og dregur hann þaðan nafnið. Naflastreingurinn er eigi alltjend jafnlángur; optast mun þó mega fullyrða, að hann sje 18 til 22 þumlúnga lángur um lok meðgaungutímans, og þessvegna hjerumbil jafnlángur og burðurinn. Annar endi naflastreingsins hefur sín upptök í kvið burðarins, en hinn endinn hverfur inn í legkökuna, eins og áður er sagt, á innri hlið hennar, sem er hál viðkomu, og geta má þess, að optast hittir hann sjalft miðbikið, en stundum þó nokkru utar, og stökusinnum festir hann sig út í sjálfum barminum.

Þá er búið er að kynna sjer til hlítar allt um æðar naflastreingsins, sem liggja eptir honum endilaungum, frá kvið burðarins allt að legkökunni, er þekkíngin fyrst orðin ljós á því, hvernig blóðið rennur millum burðarins eg legkökunnar. Þá verður fyrst skiljanlegt hvernig það má verða, að burðarblóðið flyzt um hinar tvær slagæðar, sem áður er skýrt frá, inn í legkökuna, en hjer hittir það fyrir sjer blóðið úr æðum legkök-

unnar, og breytist svo við það eðli þess, að það er að svo búnu orðið hæfilegt til að næra burðinn, og halda við lífi hans, en það flyzt aptur til burðarins um blóðæðina. Af áður sögðu verður og með öllu auðsætt, hvers vegna burðurinn hlýtur að deyja, þá er naflastreingurinn með einhverjum hætti kreystist saman í fæðíngunni, svo að blóðið eigi má án tálmunar halda rás sinni.

9 mynd.




Athugagr. Til þess nákvæmar að sýna sambandið millum parta eggsins stendur mynd þessi hjer. Sýnir hún fulltíða egg þó minna, enn það er í raun og veru, og er sýnt með þeim hætti innan í það, að sjá má:

A. Burðinn, sem við
B. naflastreinginn er í sambandi við
C. legkökuna; en hjer má sjá:
   a. hina innri hálu hlið hennar með æðakvíslunum úr naflastreingsæðunum,
   bbb. himnurnar, sem eru skornar í sundur, og liggja þær umhverfis barmana á legkökunni,
   cc. lítinn part af ytri hlið legkökunnar, sem er ójafn og þakinn sepum.

### 30sta gr.

Af hinum innri pörtum eggsins er **burðurinn** mikilvægastur. Yfirsetukvennafræðinni hæyrir eigi til að skýra frá, hvernig burðurinn myndast í egginu og hinir einstöku partar hans, en til að skilja í því skal nema aðrar vísindagreinir. Yfirsetukonan hlýtur því að láta sjer lynda að vita það eitt, að á þriðju viku meðgaungutímans fer burðurinn að myndast, og byrjar það svo, að hann er til að sjá sem tvær blöðrur, sem fastar eru saman, og síðan vex hann og dafnar eptir vissri röð og reglu smámsaman, þar til hann er fulltíða um lok meðgaungutímans. Þannig er burðurinn við lok annars mánaðar hierumbil þumlúngur á leingd, og á höfðinu má aðgreina augu, nef, munn og eyru; handleggi og fætur má og sjá líkt og nibbur nokkrar á sínum stað, en tær og fíngur vantar með öllu.

Um lok þriðja mánaðar er hin rjetta lögun komin á burðinn og alla einstaka parta hans. Hann er þá hjerumbil hálfs þriðja til þriggja þumlúnga lángur.

Um lok fimmta mánaðar, hjerumbil í tuttugustu vikunni, er burðurinn orðinn átta til tíu þumlúnga lángur, og er honum þá og svo mjög farið fram, að konan finnar til að útlimir hans hræra sig. Þá segja menn að burðurinn *hræri sig*, og eins að konan sje *búin að hálfgánga með.*

Á sjöunda mánuði er burðurinn orðinn fjórtán til fimtán þumlúngar á leingd, og vegur hann fjórar til fimm merkur, og er hann nú kominn svo vel á veg að

halda má í honum lífinu eptir fæðínguna, ef rjett er með farið.

Upp frá þessum tíma vex og dafnar burðurinn á hinum síðustu mánuðum meðgaungutímans til þess tíma, er hann með öllu er fulltíða.

Hinn fullaldra burður er hjerumbil átján til tuttugu þumlúnga lángur, og vegur hann sem optast tólf til sextán merkur. Hinir einstöku partar burðarins eru allir venjulega holdugir og sívalir, skinnið er þvalt, og alþakið hvítleitri fitu nokkurri; stærð höfuðsins er eðlileg, og er það fast fyrir og þakið hárum; eyrun eru eins og brjósk, þá á þeim er tekið, og neglurnar eru sem væru þær úr horni, fastar í sjer, og ná fram yfir fíngurgómana. Yfirsetukonunni nægir að þekkja þau hjer greindu útvortis merki til að geta sagt, hvort burðurinn er fulltíða. Frá merkjum þeim, sem lýsa því, að burðurinn sje eigi fulltíða, skal síðar sagt verða.

## 31sta gr.

Skipta má líkama burðarins í *höfuðið*, *bolinn* og *útlimina*. Höfuðið er fyrirferðarmest og harðast viðkomu, og fyrir þá sök tálmar það mest fyrir fæðíngunni, og má því optast fullyrða að þá er höfuðið einúngis er sloppið í gegnum grindarholið, muni hinir partar líkamans án viðstöðu komast um það. Höfuð burðarins er því sá partur hans, sem mest er undir komið í fæðíngunni, og ber því yfirsetukonunni að kynna sjer allt ásigkomulag og útlit þess til hlítar.

Aðal partar höfuðsins eru: *andlitið* og *höfuðskelin.*

*Höfuðskelin* samsvarar hjerumbil hinum hárgaða parti höfuðsins, og nær hún því yfir nokkurn hluta af enninu, hvirfilinn og hnakkann. Hana mynda sjö bein, og eru það: tvö ennisbein, tvö hliðarbein, tvö gagnaugnabein, og eitt hnakkabein. Á fullorðnum eru bein þessi gróin saman, en á burðinum og á únga aldri eru þau aðskilin, og einúngis himnubönd nokkur halda röndum þeirra saman. Þá er himnusamskeyti þessi eru millum tveggja beina, og eigi breið, eru þau kölluð *saumar*; en þá er fleiri bein koma saman og himnuböndin verða breiðari eru samskeytin nefnd *hausamót.*

Af samskeytum þessum þarf yfirsetukonan einkum að þekkja þrjá sauma og tvö hausamót. Saumar þeir eru:

1. *Örvasaumurinn* geingur eptir höfðinu endilaungu að framanverðu millum ennisbeinanna, og fyrir aptan þau á millum hliðarbeinanna. Hann hefur sín upptök fyrir ofan nefið, og endar við hin þríhyrndu hausamót. Hinn fremsti hluti saums þessa hefur verið kallaður ennissaumurinn, sökum þess hann liggur á millum ennisbeinanna.

2. *Þversaumurinn* geingur þvert yfir um höfuðið milli gagnaugnanna, og skeytir hann saman ennisbeinin og hliðarbeinin.

3. *Hornsaumurinn* sameinar að aptan hliðarbeinin og hnakkabeinið, og dregur hann nafn af því, að hann reyndar samanstendur af tveim saumum, sem

að ofanverðu mætast, en á samkomunum verður horn nokkurt.

Hausamótin eru þessi:

10 mynd.




1. Hin fremri, stóru eða ferhyrndu hausamót (myndin 10 a), eru framan til á höfðinu, þar sem örvasaumurinn og þversaumurinn gánga á víxl, eða með öðrum orðum millum hvorutveggju ennisbeinanna og hliðarbeinanna. Finna má til þeirra millum hornanna á þessum fjórum beinum á þann hátt, að þar verður linara undir fíngrinum millum þessara samkomna.

2. Hin aptari, minni eða þríhyrndu hausamót (myndin 10 b), liggja þar sem örvasaumurinn og hornsaumurinn mætast, eða með öðrum orðum, þar er hin tvö hliðarbein í hvirflinum skeytast saman við hnakkabeinið. Hausamót þessi eru minni enn hin, er áður er skýrt frá, og í fæðíngunni eru þau til að finna sem þríhyrnd hola nokkur, sökum þess að fremsta nibban á hnakkabeininu geingur nokkuð á misvíxl við þær randir hliðarbeinanna, sem snúa aptur að hnakkabeininu. Þær liggja ofan á hnakkabeinsnibbunni.

Saumar þessir og hausamótin koma því til leiðar að höfuðskelin sjálf er þeim mun sveiganlegri, og sökum

þessa geta höfuðbeinin gengið nokkuð á misvíxl, þá er þau í fæðíngunni mæta mótspyrnu í grindarholinu, og þannig verður höfuðið sjálft minna fyrirferðar. Af saumunum og hausamótunum getur yfirsetukonan og ráðið hvernig höfuðið liggur í grindarholinu, þá er hún ransakar konuna.

## 32ur gr.

Áður er skýrt frá að nauðsynlegt þótti, að grindin væri rúmleg, og að hol hennar samsvaraði vissri tiltekinni vídd og lögun, eins er það og eigi síður áríðandi í fæðíngunni, að höfuð burðarins hafi eðlilega stærð, og hafa menn því komið sjer saman um að ákveða vissa tiltekna *stærð* eða *þykkt* höfuðsins, sem hjer segir:

11 mynd.




1. *Þykktin á leingri veginn*, úr miðju enninu aptur á hnakkann, hálfur fimmti þumlúngur (myndin 11 a-b).
2. *Hin aptari þykkt um þvert*, úr búngunni á hliðarbeininu yfir í búnguna á hinu hliðarbeininu, hálfur fjórði þumlúngur (myndin 10 c-d).

3. *Hin fremri þykkt um þvert*, úr gagnaugabeininu yfir í hitt, hálfur þriðji þumlúngur (myndin 10 e-f).
4. *Þykktin á skâ*, ur hökunni í hin þríhyrndu hausamót, fimm þumlúngar (myndin 11 c-b).
5. *Þykktin á hæðina*, úr botninum upp á hvirfilinn, hjerumbil hálfur fjórði þumlúngur (myndin 11 d-e).

Til þess að geta borið saman þessa stærð höfuðsins við hina aðra parta burðarins, má enn á þessum stað geta þess, að *bolurinn* á barninu er gildastur um herðarnar, eða hjerumbil hálfur fimmti þumlúngur millum axlanna, en hjerumbil fjórir þumlúngar millum mjaðmanna. En sökum þess að þessir partar líkamans eru mjög holdugir, láta þeir undan í fæðíngunni, og er því með öllu auðsætt, að höfuðið muni mest tálma fæðíngunni, bæði vegna þess að það er fyrirferðarmest, og einkum af því, að það er harðast fyrir.

## 33ja gr.

Að síðustu viljum vjer enn skýra nokkuð eitt frá því, hvernig *burðurinn* almennast *liggur* í egginu síðast á meðgaungutímanum, og þá er fæðíngin tekur við. Algeingast er að burðurinn liggi á þann hátt, að höfuð hans snýr niður að legopinu og hvirfillinn að nokkru leyti fram, en sitjandinn snýr upp að legbotninum. Hryggur burðarins snýr fram í kviðnum, þó svo að honum hallar optast nær nokkuð á ská annaðhvort til hægri eða vinstri hliðar. Lærin beygjast upp undir kviðinn, með þeim hætti, að fæturnir liggja í grend

sitjandann. Handleggirnir liggja annaðhvort fram með hliðunum á brjóstinu, eða í kross yfir um það. Líkami burðarins er allur nokkuð keingbeygður fram á við, svo hann taki sem minnst rúm upp verða má, og þá hann er í sínum rjettu skorðum, verður lega hans nokkurnveginn eggmynduð.

Þessi lega burðarins, er nú hefur verið skýrt frá, er algeingust, og má hana því kalla hina *eðlilegu legu* burðarins. Hver önnur lega hans verður því að nokkru leyti *óeðlileg*.

---

## FJÓRÐI KAPÍTULI

## skýrir frá hvernig komizt verður eptir því, hvort konan er með barni.

### I. *Eins og einkenni þykktar sýna sig algeingast.*

### 34da gr.

Opt ber það við, að sú spurníng er lögð fyrir yfirsetukonuna, hvort konan sje barnshafandi, og hlýtur hún allajafna að leysa úr spurníngu þessari bæði greinilega og með samvizkusemi, sökum þess, að opt er mikið undir úrlausninni komið. Því fer fjærri að alltjend sje hægt að veita skír andsvör, stundum er það mjög svo torvelt, má og vera að stundum sje þess eigi kostur að leysa úr spurníngunni, eins og þá kann að

standa á tímanum. Einkum ber það til þess, að úrlausnin opt má verða torveld, að einkenni þau, af hverjum almennt má ráða að konan sje með barni, eru eigi með öllu óræk, og hins vegar sýna sig eigi allajafna hin órækustu eða áreiðanlegustu einkenni þess á öllu konum, og eins eru þau heldur eigi jafnljós eða greinileg á öllum köflum af meðgaungutímanum. Þessvegna er yfirsetukonunni mjög svo áríðandi að kynna sjer til hlítar allt það, sem lýtur að þessu efni, svo hún geti aðgætt og haft í huganum allt það, sem má leiðbeina henni í úrlausninni, þá er hún annars vegar er vafasöm.

Með tvennu móti má komast eptir, hvort konan er þúnguð. Má annaðhvort ráða það af breytíngunum á ásigkomulagi konunnar, eða hins vegar sjá það af burðinum sjálfum. Nú viljum vjer skýra frá þessu nokkru nákvæmar, og telja upp öll einkenni þykktar í þeirri röð, sem þau sýna sig, eptir því hve lángt er liðið á meðgaungutímann, og hins vegar viljum vjer og leiða rök til, hve áreiðanleg einkenni þessi eru hvert um sig.

## 35ta gr.

**1.** *Konunnar ógleði og sjúkleiki.* Öllum er kunnugt, að einkenni þetta sýnir sig optast snemma á meðgaungutímanum, en með mjög svo margbreyttum hætti, og svo misjafnt, að hjá sumum konum ber eigi á því, en hjá sumum helzt það um allan meðgaungutímann. En þess ber að gjæta, að líkur sjúkleiki sýnir sig opt þó

konan eigi sje með barni, og er það þess vegna auðsætt, að einkenni þetta er mjög svo lítilfjörlegt og óáreiðanlegt.

36ta gr.

2. *Tíðirnar hætta.* Tíðirnar hætta þegar í byrjun meðgaungutímans, og er það með öllu eðlilegt, því blóð þetta streymir nú allt að egginu og nærir burðinn, og er þetta svo algeingt hjá barnshafandi konum, að einkenni þetta, ásamt öðrum, í raun rjettri er mikilsvarðandi, og einna ljósastur vottur barnsþúnga. En sje það nú skoðað sjer, án sambands við önnur einkenni, þá er það einganveginn áreiðanlegt, sumpart vegna þess, að opt má verða, að tíðirnar hætti þó þykkt eigi valdi því, sumpart og af þeim rökum, að það ber stundum við, að konan hefur tíðir um meðgaungutímann, eigi einúngis fyrst um meðgaungutímann, heldur og þángað til á síðustu mánuðum, en það ber þó sjaldan við. En reynslan hefur sýnt, að tíðablóðið, þá svo stendur á, er bæði bleikara á lit og minna að vöxtunum til, enn það er venjulega.

37da gr.

3. *Breytíngin* sem verður á *brjóstunum.* Breytíng þessi, er vjer áður höfum kynnt oss, er því að eins nokkur röksemd fyrir því, að konan sje barnshafandi, ef önnur einkenni sýna sig henni samfara, en sýni hún sig einsaman er hún mjög svo lítilvæg. Bæði er það að til eru þær konur, er brjóstin breytast svo að

segja ekkert á um meðgaungutímann, og eins eru og þess dæmi, að breytíngar þessar sýna sig, þó konan eigi sje með barni. Þetta má eigi einúngis segja um ásigkomulag brjóstanna að utan, heldur og um hinn mjólkurkynjaða vökva í þeim, er stundum kemur í brjóstin á öldruðum konum og á börnum.

### 38da gr.

4. *Breytíngin á kvið konunnar*, *er sýnir* sig á *þann hátt*, að *hann þykknar allur eptir því sem leingra líður á meðgaungutímann.*

Á hinum fyrstu mánuðum meðgaungutímans, þá er legið færist leingra niður í grindina, verður konan opt megri, og sje þá kviðurinn ransakaður fyrir neðan naflann, verða menn áskynja um, að hann er orðinn venju flatari, einkum rjett fyrir ofan blöðrubeinið. Þó er flatneskja þessi reyndar eigi mjög mikil, og eins sýnir hún sig heldur eigi á öllum konum, allra-sízt á þeim, sem mjög eru feitar, eða á þeim, sem áður hafa átt barn, því kviður þeirra er sökum þess allur orðinn flatneskjulegur.

En um lok þriðja mánaðar, þá er legið færist upp í hið stóra grindarhol, er þess eigi lángt að bíða, að konan verður þess vör, að hún tekur til að þykkna, og sje þá kviðurinn kannaður, má finna til legbotnsins fyrir ofan röndina á blöðrubeininu; er hann þá fastur eða þjettur fyrir, og svo sem hnöttóttur viðkomu. Upp frá þessum tíma þykknar kviðurinn smámsaman, eptir því

sem legbotninn færist leingra upp eptir honum. Þykktin eykst nú svo mjög, að á hverjum mánuði má sjá þess sýnan mun, og fyrir þá sök má opt ráða af þykktinni einni, hve lángt er liðið á meðgaungutímann. Samkvæmt áður sögðu, má finna til legbotnsins á fimmta mánuðinum miðsvegar millum naflans og blöðrubeinsins, á sjötta mánuðinum rjett fyrir neðan naflann, á sjöunda mánuðinum fyrir ofan naflann, á áttunda mánuðinum mitt á milli naflans og hjartagrófarinnar, og á níúnda mánuðinum rjett í sjálfri hjartagrófinni. Á tíunda mánuðinum færist legbotninn aptur niður eptir, eins og áður er sagt, og það svo mjög, að á síðustu vikunni fyrir fæðínguna er hann kominn á sama stað, og hann var áður á sjöunda og áttunda mánuðinum.

Varla mun nokkur önnur kviðarþykkt, enn barnsþúngan, aukast og vaxa jafnreglulega og með eins jöfnu millibili, sem sagt hefur verið, og í svo einskorðaðri röð, og einmitt vegna þess er þykkt konunnar, er þannig er varið, einka mikilvægur vottur þess, að hún sje með barni. En þess ber þó að gjæta, að eigi verður jafnglöggt fundið til legbotnsins á öllum konum, og eins er kviðarþykktin heldur ekki jafnsýnileg. Stundum ber það við, að þykktin er hulin með klæðabúnínginum, og eins er það og einkum athugandi, að þá er burðurinn deyr, má það verða, að kviðarþykktin mínnki talsvert, þó konan gángi enn miklu leingur með.

### 39da gr.

5. *Breytíngin, sem verður á naflaholunni.*

Áður er skýrt frá því, að um lok sjötta mánaðar er legbotninn kominn fast upp að naflaholunni, og fyrir þá sök tekur hún til að þenjast út, fyrst að neðanverðu, vegna þess að legbotninn þreyngir að að innanverðu. Eptir því sem legbotninn stígur leingra upp eptir, flezt holan meir og meir út, svo að á áttunda mánuðinum er hún með öllu horfin, og á síðasta mánuði meðgaungutímans er hún nokkuð tútnuð út úr kviðnum. Þó er þetta eigi áreiðanlegur vottur þess, að konan sje með barni, því það má og verða, að önnur þykkt, enn barnsþúngan, valdi breytíngu þessari á naflaholunni, er að innan þrýstir að þar er naflinn er fyrir. En þá er önnur einkenni þykktar sýna sig samfara þessu, er það allsennilegt.

### 40sta gr.

6. *Breytíngin, sem verður á legopinu og leghálsinum.*

Áður er sagt frá því, að á hinum fyrstu tveim mánuðum meðgaungutímans færist legopið leingra niður í leggaungin, og barmar þess verða jafnlángir, og opið sjálft, sem í fyrstunni er aflángt, er nú kiprað saman, og orðið því nær kringlótt. En þá er þriðji mánuðurinn er liðinn, færist legopið leingra upp eptir, að sínu leyti eins og legið sjálft, og veit það þá aptur á við, og síðar kemst það svo lángt upp eptir, að allt

að síðasta mánuðinum má að eins finna til þess, og stundum alls ekki, þá er maður leitar fyrir sjer með fíngrinum. En þá er líður að fæðíngunni, er það á konum þeim, sem eiga barn í fyrsta sinn, með litlum börmum, og lokað, en á konum, sem optar hafa átt barn, eru barmarnir á því þykkvir, ójafnir, og svo sem sigg í þeim, og á síðustu vikunum er það sjálft svo opið, að um það má fara með fíngurinn upp að egg-himnunum.

Leghálsinn breytist eigi um fyrri helmíng með-gaungutímans að öðru leyti enn því, að hann verður nokkru þykkari og mýkri viðkomu. Hjerumbil á fimmta mánuðinum ber fyrst á því, að leghálsinn tekur að þenjast út að ofan og framanverðu, og á sjötta mánuð-inum bólgnar hann einnig út að ofan og að aptanverðu. En úr því komið er á sjöunda mánuðinn, þenst hann svo mjög út að ofan og svo þaðan niður eptir, að hann meir og meir að löguninni til líkist hálfhnetti. Því meir sem hann þenst út með þessum hætti, þess þynnri verður hann, og fyrir þá sök má glöggt finna til höfuðsins á burðinum innan undir honum á síðustu mánuðum meðgaungutímans

12 mynd.



13 mynd.



14 mynd.



12ta myndin sýnir lögun leghálsins á þriðja mánuði meðgaungutímans, 13da myndin á sjöunda mánuðinum, og 14da myndin á tíunda mánuðinum.

Breytíng þessi á legopinu og leghálsinum er þannig vottur þess, að konan sje með barni. Þó ber þess að geta, að breytíngar þessar sýna sig eigi beinlínis með sama hætti á öllum þúnguðum konum, og hins vegar, þá er legið sjálft veikist af öðrum orsökum, enn af barnsþúngan, ber það stundum við, að lík breytíng kemur á legopið og leghálsinn, og fyrir þá sök er þetta eigi einhlítur vottur þess, að konan sje barnshafandi. Þó eru allajafna meiri líkindi til að konan sje með barni, þá er leghálsinn þenst út, heldur enn ef breytíngin sýnir sig eingaungu á sjálfu legopinu.

## 41sta gr.

Einna mest má reiða sig á þau merkin, sem beinlínis sýna sig hjá burðinum sjálfum, og þá er þau sýna sig glöggt, er hvert þeirra svo mikilvægt að gánga má úr skugga um, að konan sje með barni. Þess ber að geta, að öll slík einkenni sýna sig fyrst eptir að konan er búin að hálfgánga með, en þau eru:

7. *Burðurinn hrærist.* Menn hafa reynsluna fyrir sjer um það, að um lok fimmta mánaðar er burðurinn optast kominn svo lángt á leið, að hann tekur til að hræra sig, og það svo að eigi einúngis konan sjálf finnur til þess, heldur má og finna til þess, þá er maður leggur höndina utan á kviðinn fyrir neðan

naflann. þessi hræríng burðarins sýnir sig á þann hátt, að eins er sem eitthvað hastarlega komi við höndina, en sem þegar hverfur. Á hinum síðustu mánuðum meðgaungutímans lýsir þetta sjer miklu glöggvar.

Ef maður á skýlaust að geta sagt af hræríngum burðarins, að konan sje með barni, þá ber þess að gjæta, að eigi skal þann dóm byggja á því, þó konan ein finni til þeirra, heldur verðum vjer einúngis að fara eptir vorri ransókn, er fara skal fram með allri samvizkusemi; það er mjög svo algeingt, að konur, einkum þær, er eigi áður hafa alið barn, ímyuda sjer að burðurinn hrærist, þó slíkt opt komi af öðrum orsökum, og draga þær þannig sjálfa sig og aðra á tálar í þessu efni. En ef vjer sjálfir glöggt höfum fundið hræríngu burðarins, getum vjer um leið öldúngis geingið úr skugga um, að konan sje með barni. Þó er það athugandi, að eigi er með þessu sagt, að konan kunni eigi eins eptir sem áður að vera þúnguð, þó vjer eigi getum fundið burðarhræríngarnar með henni, því þess ber að gjæta, að opt má það verða, að eigi beri á burðarhræríngu þessari, eigi einúngis um nokkrar stundir, heldur og um nokkra daga, og það þó að burðurinn sje á lífi; það er og á hinn bóginn sjálfsagt, að þá er burðurinn deyr í móðurkvið, eigi muni leingur finnast til nokkurrar hræríngar með konunni. Af því, sem nú hefur verið skýrt frá um stund, verður þá með öllu auðsætt, að þá er vjer finnum til burðarhræringanna með konunni, má gánga úr

skugga um, að hún er með barni, en hins vegar sannar það eigi hið gagnstæða, þó vjer finnum eigi til þeirra.

8. *Hjartsláttur burðarins*. Þá er sjötti mánuðurinn er byrjaður, má heyra hljóð nokkurt, sem líkist því, er maður heyrir til sigurverks, er þakið er klæðum. Má heyra þetta með því að leggja hlustina við kvið konunnar, rjett fyrir neðan naflann. Hljóð þetta er hjartsláttur burðarins, og er hann því nær tvöfalt svo fljótur, sem sláttur lífæðarinnar á konunni.

Heyri maður glöggt til hljóðs þessa, þá er það sjálfsagt, að það getur eigi verið annað, enn hjartsláttur burðarins, og að því leyti er það órækur vottur þess, að konan sje með barni. En þess ber að gjæta, að hjartslátturinn verður opt um nokkra stund óglöggvari, og hins vegar er það sjálfsagt, að hann hættir með öllu, þá er burðurinn deyr; má þessvegna segja hið sama um einkenni þetta, eins og um það, sem skýrt er frá næst á undan, að það sannar eigi að konan sje eigi þúnguð, þó eigi heyrist til hjartsláttar burðarins.

9. *Þá er finna má til nokkurra parta burðarins, annaðhvort utan á kviðnum eða um leghálsinn.* Opt má það verða, að maður getur glöggt fundið til einstakra parta burðarins á hinum síðustu mánuðunum, einúngis með því að leita fyrir sjer með hendinni utan á kvið konunnar, og þá svo er, má öldúngis gánga úr skugga um, að hún sje með barni. En þó ber það opt við, að finna má reyndar til nokurra parta í kvið

konunnar, sem harðir eru viðkomu, og eru þá líkindi til að það sjeu nokkurir partar burðarins, en svo glöggt finnst þó eigi til þeirra, að gánga megi úr skugga um, að svo sje. Þá er svo stendur á, ber þess jafnan að gjæta að reiða sig eigi um of á nokkurja getgátu í þessu efni, því reynslan hefur sýnt, að opt skjátlar yfirsetukonunni, þá svo ber undir.

Með miklu meiri vissu má fara eptir tilfinníngunni þá er kannaður er leghálsinn á hinum síðustu mánuðum meðgaungutímans; hann er þá orðinn útþaninn, og fyrir þá sök má finna til höfuðsins úr því komið er fram í sjöunda mánuðinn, ef burðurinn liggur eðlilega, eða eins og tíðast er; það er reyndar enn sem komið er mjög svo lítið, en þá er þrýst er með fíngrinum utan á leghálsinn, hleypur það eins og undan honum, vegna þess, að burðurinn allur, eins og áður er sagt, flýtur í legvatninu. En því meir sem leghálsinn á hinum síðari mánuðunum þenst út og þynnist, því glöggvar má finna til höfuðsins á burðinum um hann, en það stækkar nú óðum og verður þýngra, og sökum þess lætur það síður undan þó þrýst sje með fíngrinum utan á leghálsinn.

Þá er glöggt má finna til höfuðsins á burðinum, er það sjálfsagt að einginn vafi er leingur á því, að konan sje þúnguð, og er þetta því með öllu áreiðanlegur vottur þess. En á hinn bóginn sannar það eigi hið gagnstæða, þó vjer eigi getum fundið til

höfuðsins, eins og áður er sagt, því stundum ber það við, að höfuðið einhverra orsaka vegna nemur staðar svo lángt upp í grindarholinu, að eigi verður náð til þess með fingrinum, og eins fer þá er burðurinnn eigi liggur eðlilega í leginu, og höfuðið eigi snýr niður að leghálsinum.

42ur gr.

Af því er nú hefur verið skýrt frá um stund, verður yfirsetukonunni það með öllu ljóst, að fysrt á hinum síðara hluta meðgaungutímans getur hún með vissu komizt eptir, hvort konan er með barni, en á hinn bóginn getur það og að borið, að hun eigi getur geingið úr skugga um það, enda þótt konan sje meir enn búin að hálfgánga með. Þá er svo stendur á, en það ber sjaldan við, er það skylda yfirsetukonunnar, að skjóta til læknis úrskurðar í þessu efni.

---

II. *Einkenni þau, er lýsa því, hvort burðurinn er á lífi eða hann er dauður um meðgaungutímann.*

43ja gr.

Fjærri fer því, að allajafna sje auðvelt með vissu að skera úr því, hvort burðurinn sje á lífi eða hann sje dauður. Reyndar má með vissu komast eptir, hvort hann er á lífi, en eigi eptir því, hvort hann er dauður,

því opt má það verða, að eigi verður fundið lífsmark með honum, enda þótt hann sje á lífi.

Ef konan eigi hefur orðið fyrir svo miklum áföllum um meðgaungutímann, að burðinum sje auðsjáanlega dauði búinn, er ástæða fyrir því að halda, *að burðurinn sje á lífi*, og eins þá er allar þær breytíngar, sem venjulegt er að verði á högum barnshafandi konu, lýsa sjer í þeirri röð, sem eðlilegt er, og áður er skýrt frá. En úr skugga má gánga um að burðarinn sje á lífi, þá glöggt verður fundið til hræringa hans og þá er heyra má til hjartsláttarins.

Líkindi eru til þess *að burðurinn sje dauður:*

*þá er* konan hefur orðið fyrir miklum og skaðvænum áföllum og slisum;

*þá er* eigi hefur fundizt til burðarhræringa um nokkuð lángan tíma, einkum hafi mjög mikið borið á þeim, þá er síðast varð vart við þær;

*þá er* eigi hefur heyrst til hjartsláttar burðarins um lángan tíma;

*þá er* kviðurinn svo sem dregst saman og minnkar allur, í stað þess að þenjast út, og konan finnur til kulda í honum, einkum fyrir neðan naflann, og ef hún verður vör við þýngsli nokkur til beggja hliða, þá er hún hallar sjer út á hliðarnar;

*þá er* allur stálmi fer úr brjóstunum.

*Þá er* hvert eitt einstakt af þessum einkennum lýsir sier, eru nokkur líkindi til þess, að burðurinn sje dauður; lýsi þau sjer öll í senn, er það mjög svo senni-

legt, en þó er eigi fullkomin vissa fyrir því, og fyrst verður geingið úr skugga um dauða burðarins í fæðíngunni sjálfri.

---

### III. *Skýrir frá hvernig komast má eptir, hvort konan geingur með tvíbura.*

Eigi verður með vissu komizt eptir því, hvort konan geingur með tvíbura, fyr enn hún fæðir; fyr meir þótti mönnum það lýsa sjer með mörgum hætti, en reynslan hefur sýnt, að bæði er það óljóst og bregzt opt. Ástæður fyrir þessu, sem týndar hafa verið til, eru þessar:

Þá *er kviðarþykkt konunnar er mjög mikil*, en það getur og borið til þess að svo er, að burðurinn er venju fremur stór, eða legvatnið er of mikið.

Þá *er lægð verður á miðjum kviðnum, en búnga mikil eða þykkt til beggja hliða*, en kviðurinn er eigi allajafna svo lagaður, þó konan gángi með tvíbura, og hins vegar fær hann á stundum lögun þessa, þá er burðurinn liggur um þvert í leginu.

Þá *er á fleirum stöðum má í senn finna til þess, að burðurinn hræri sig í kviðnum*, enn verða má ef burðurinn er einúngis einn.

Þess ber og að geta, að konunni er *óhægar* og *öll er hún veikari af sjer*, þá er hún geingur með tvíburа; ber það reyndar opt við að svo er, en eingan veginn alltjend.

Af öllum þessum ástæðum, er nú hefur verið sagt frá, verður það eitt með sanni sagt, að líkindi eru til að konan gángi með tvíbura, og við það verður að sitja þángað til hún fæðir, en fæðíngin ber optast að nokkru fyr þá svo stendur á, enn venjulegt er.

---

## FIMMTI KAPÍTULI

### skýrir frá hvernig sjá má, hve lángt er liðið á meðgaungutímann.

#### 45ta gr.

Venjulegast er að konan gángi með tíu mánuði eða fjörutíu vikur eða tvö hundruð og áttatíu daga, eða þá talið er eptir almanakinu, níu mánuði og sjö daga. Þá er þessi tími er liðinn segja menn að konan sje búin að fullgánga með, burðurinn sje fulltíða og fæðíngin tímanleg. Nokkurra daga mismunur er eigi tekinn til greina, og er það heldur eigi mikilsvarðandi, þó slíku skakki, og opt má verða að það beri til þess, að skakkt sje talið til.

Sje svo að yfirsetukonan er skylduð til að tilgreina, hve lángt konan sje búin að gánga með, eða með öðrum orðum, hve lángt sje eptir af meðgaungutímanum, þá hlýtur hún fyrst og fremst að fara eptir því í úrlausn sinni, sem konurnar sjálfar venjulega telja til, eða með

orðum að telja frá þeim tíma, þá er tíðirnar hætta og burðurinn tekur fyrst til að hræra sig.

Nú viljum vjer nákvæmar greina frá, hvernig talið er frá því, þá *er tíðirnar hætta*, og er þá talið frá þeim degi, á hverjum tíðirnar síðast sýndu sig, og eru þá öll líkindi til að konan muni fæða fjörutíu vikum síðar, á að gizka um þær mundir, sem konur venjulega hafa tíðir. Það er með öllu auðsætt að nokkru muni skakka, þá svo er talið til, bæði sökum þess, að opt koma eigi tíðirnar epir vissri röð og reglu, og eins verður eigi hægt að ákveða leingd tímabilsins millum síðustu tíðanna og frjófgunarinnar, þá svo er með farið.

Eptir *hræríngum burðarins* er og talið til, hve lángt sje liðið á meðgaungutímann, og er þá almennt við tekið, að tuttugu vikur sjeu liðnar, þá er konan fyrst verður vör við slíka hræríng með sjer. Þá segja menn að konan sje búin að *hálfgánga með*, og líf sje með burðinum, þó ætti eigi að við hafa þetta orðatiltæki, því það er í marga staði óljóst. En þá þannig er talið til, koma og misfellur á, og er það sumpart vegna þess, að eigi er með öllu óhætt að reiða sig á tilfinníngu konunnar í þessu efni, og hins vegar hefur reynslan sýnt, að þá er burðurinn er annaðhvort vel eða miður dafnaður, sýna sig hræríngar hans eptir því nokkru fyrir eða eptir tuttugustu vikuna.

Hinn beinasti vegur fyrir yfirsetukonuna til að leysa úr þessu er sá að ransaka *hina innri fæðíngarparta*, *kviðinn* og *brjóstin*, og mun henni þá minnst

skjátla, er hún byggir úrlausnina á ransókn þessari. Áður er skýrt frá breytíngum þeim, sem lýsa sjer á þessum pörtum á líkama konunnar á ýmsum köflum af meðgaungutímanum. En til þess hægar að geta sjeð yfir þær allar í senn, viljum vjer á þessum stað taka allar hinar helztu breytíngar undir eitt, og skýra frá þeim, í þeirri röð, sem þær sýna sig meðan konan geingur með, en af þeim einum skal yfirsetukonan ráða, hve lángt sje liðið á meðgaungutímann, en þó má hún eigi hugsa sjer, að hún með fullkominni vissu geti leyst úr þessu, heldur einúngis svona hjerumbil getið því nærri. Breytíngar þessar sýna sig þannig:

Á *hinum fyrstu tveim mánuðum* er kviðurinn nokkuð flatur fyrir ofan blöðrubeinið, og má finna til legopsins lángt niður í leggaungunum; barmar þess eru jafnlángir, og opið sjálft svo sem kíprað saman og orðið næstum því krínglótt; leghálsinn er venju fremur mjúkur og þykkur; brjóstin stækka og verða öll viðkvæmari.

*Um lok þriðja mánaðar* verður kviðurinn þrýstnari fyrir ofan blöðrubeinið; legopið færist upp eptir leggaungunum, og snýr að nokkru leyti aptur á við; konan finnur til hviða og smástíngja í brjóstunum, og skinnið verður dekkra í kríng um geirvörturnar.

Á *fjórða mánuðinum* er kviðurinn orðinn talsvert þrýstnari fyrir ofan blöðrubeinið og mjaðmirnar; glöggt má finna til legbotnsins rjett fyrir ofan röndina á blöðrubeininu; legopinu hefur miðað leingra upp eptir grindar-

holinu, og snýr það meir aptur á við, enn fyr; skinnið er orðið enn dekkra í kríng um geirvörturnar.

Á *fimmta mánuðinum* má finna til legbotnsins miðsvegar millum naflans og blöðrubeinsins; varla verður um leggaungin náð til legopsins með fíngrinum; á hinum síðari hluta mánaðarins tekur leghálsinn og til að þenjast út at framan og að ofanverðu, og á síðustu vikunni (hinni tuttugustu) verður konan fyrst vör við hræríngar burðarins.

Á *sjötta mánuðinum* má finna til legbotnsins rjett upp undir naflanum, og hinn neðri hluti naflaholunnar tekur að þenjast út; glöggt má og heyra til hjartsláttarins; leghálsinn er nú og þaninn út að aptan og að ofanverðu, og er hann orðinn í lögun eins og kvennmanns húfa, og varla verður með fíngrinum náð til legopsins.

Á *sjöunda mánuðinum* er legbotninn kominn 1 eða 2 þumlúnga upp fyrir naflann, og naflaholan er næstum horfin; leghálsinn er orðinn ávalur, og í þessa mánaðar lok má finna til höfuðsins á burðinum með fíngrinum, en það eins og hleypur undan, þá er þrýst er utan á leghálsinn; vökvi nokkur, sem líkist mjólk, kemur í brjóstin.

Á *áttunda mánuðinum* er legbotninn kominn miðsvegar millum naflans og hjartagrófarinnar; naflaholan er með öllu horfin; utan á kviðnum má finna til nokkurra parta burðarins; leghálsinn er enn meir þaninn

út, og finna má glöggt til höfuðsins á burðinum, þá er þrýst er utan á hann með fingrinum.

Á *níunda mánuði* er legbotninn kominn því nær upp undir hjartagróf, og naflaholan er útnuð út; leghálsinn er orðinn allur þynnri, og að mestu leyti ávalur að neðanverðu; höfuð burðarins er nú miklu þyngra og stærra, og leggaungin eru öll orðin talsvert víðari, og hrukkurnar því nær horfnar; þau eru og fremur venju þvöl viðkomu.

Á *tíunda mánuðinum* færist legbotninn aptur niður undir naflann; kviðarþykktin verður öll meiri að framanverðu; leghálsinn er orðinn mjög svo þunnur og með öllu ávalur að neðanverðu, og er hann nú kominn aptur leingra niður í grindarholið, og höfuð burðarins eins. Legopið er með öllu lokað á þeim konum, sem eiga barn í fyrsta sinn, og eins eru barmar þess mjög svo litlir, en á konum, sem áður hafa alið barn, má komast með fingrinum um það upp að burðarhimnunum, og barmar þess eru nokkuð þykkvir.

---

## SJÖTTI KAPÍTULI.

### Um óeðlilega þykkt.

#### 47da gr.

Þykkt kvenna er kölluð *óeðlileg*, þá er hið frjófgaða egg kemst eigi inn í legholið, en festir sig og

þróast á öðrum stað í grindarholinu. Má þetta verða með mörgum hætti, og viljum vjer á þessum stað skýra gjör frá hverju tilfellinu sjer.

48da gr.

Þess ber að geta, *að eigi lendir hinu frjófgaða eggi allajafna á sama stað*, þá er það fer á mis við legholið. Stundum getur það að borið, að eggið eigi losnar frá eggjakerfinu, heldur situr þar fast og vex þar og dafnar; eða hins vegar losnar það reyndar við eggjakerfið, en kemst eigi leingra enn inn í legpípuna, og þróast þar, og í þriðja lagi má það verða, að eggið á leiðinni úr eggjakerfinu til legpípunnar, dettur niður í kviðinn, og festist þá einhvurstaðar á þörmunum eða á hinum öðrum innýflunum.

49da gr.

Þá er þannig tekst til með eggið, deyr konan optast nær, en þó eigi allajafna, þá fram líða stundir; þó er eigi alllítið undir því komið, hvar egginu hefur lent, því eptir því er konunni meiri eða minni hætta búin. Standi svo á að eggið hefur komizt inn í legpípuna, og vaxið þar og dafnað, þá deyr konan venjulega á þriðja eða fjórða mánuðinum, með þeim hætti, að nokkrir partar í grend við það bila eða rifna, og blæðir henni þá til ólífis. Eins fer þá er eggið festist í legpípunni. En ef egginu lendir einhvurstaðar í kviðnum sjálfum, þá er ekkert, sem

tálmar því, að burðurinn megi verða fulltíða, eins og ef egginu hefði lent í leghulinu sjálfu, en þá svo er komið, deyr burðurinn ef eigi lækninn með ráðum getur náð honum lifandi. Stundum ber það við, að konan deyr, þá er þannig hefur tekist til með eggið, en þó má sjá þess mörg dæmi, að hún heldur lífinu, annaðhvort með þeim hætti, að grefur í kviðnum fyrir neðan naflann, og um op það, er þannig kemur á hann, kemur burðurinn út í smápörtum, eða og grefur í görnunum á líkan hátt að neðanverðu og innanverðu, og konan losast þá er svo stendur á við burðinn í smápörtum um þarfagánginn. Það má og verða, að burðurinn visnar allur upp, en í stað þess að leysast í sundur, eins og í hinum tilfellunum, verður hann að hörðum klumpi, er staðnæmist í kviðnum án þess að skaða heilsu konunnar.

50sta gr.

Á hinum fyrstu mánuðum er eigi hægt *að aðgreina þessa þykkt* frá hinni eðlilegu þykkt, og síðar er það og mjög svo torvelt, og fullyrða má, að yfirsetukonan einúngis getur gjört sjer lausa getgátu um það, en aldregi sagt það fyrir með fullri vissu. Þó má vera að það, er hjer segir, gefi henni bendíngar og hugvekju í þessu efni:

*að* kviðarþykkt konunnar sýnir sig fremur til annararhvorrar hliðar, en ekki, eins og venjulegt er, mest beint fyrir ofan mitt blöðrubeinið;

*að* finna má miklu glöggvar, enn venjulega verð-

ur, til hræringa burðarins og eins hinna einstöku parta hans, þá er maður leitar fyrir sjer með höndunum utan á kvið konunnar;

*að* hvorki svara breytíngarnar á legopinu nje heldur á leghálsinum til þess, hve lángt er liðið á meðgaungutímann, og einkum er það eptirtektarvert, að leghálsinn eigi þenst út, nje verður ávalur á hinum síðustu mánuðum meðgaungutímans, eins og venja er til, þá er þykktin er eðlileg.

Ef yfirsetukonan verður vör við einkenni þau, er nú voru talin, og henni þannig sýnast líkindi til, að þykktin sje óeðlileg, þá skal hún þegar gjöra lækninum njósn um það, en forðast að láta konuna skilja það á sjer í orðum eða aðferð, eða þá er hlut eiga að.

---

## SJÖUNDI KAPITULI

## skýrir gjörr frá óeðlilegri þykkt.

### 51sta gr.

Þá er hið frjófgaða egg reyndar kemst inn í legholið, en kyrkist síðar með öllu, og eðli þess breytist svo mjög, að eigi er hægt að aðgreina hina einstöku parta þess, nje heldur burðinn sjálfan, er þykktin og kölluð *óeðlileg þykkt*, og eggið *óeðlilegt egg* eða mánaðarkálfur. En þess ber að geta, að í daglegu máli

er og hið sama nafn haft um hvern annan samdrátt, er myndast inn í legholinu, og jafnóðum eyðist aptur, án þess konan hafi orðið barnshafandi, en það er athugandi, að þá á það eigi vel við.

### 52ur gr.

Egg það, er nú gat eg um, sýnir sig opt í ýmsum myndum; stundum er það samsett af holdtrefjum og fast í sjer, en stundum er það blaðra nokkur, og er annaðhvort blóðvatn í henni eða vindur, og í þriðja lagi er það samsett af mörgum gagnsærum vatnsblöðrum eða bólum, er allar eru áfastar hver við aðra, svo sem vínberin á leggnum.

### 53ja gr.

Það er einka örðugt að gjöra mun á hvort þykktin er óeðlileg eða eðlileg, og opt er það eigi hægt, sökum þess að hin óeðlilega þykkt sýnir sig öldúngis á sama hátt á hinum fyrstu mánuðum, og væri hún eðlileg, en hins vegar varir þesskonar þykkt venjulega eigi leingur enn þrjá eða mest fjóra mánuði. Þó getur það við borið, að hún helzt fimm eða sex mánuði, og þá svo stendur á er það eptirtektarvert, að kviðarþykktin eykst venju fremur, og brjóstin þrútna, og fyr kemur í þau vatnskenndur vökvi; þá svo ber undir er konan optast venju fremur sjúk um allan meðgaungutímann, og ýmist missir hún blóð eða vatn. Það er sjálfsagt að hvorki heyrist til hjartsláttarins, nje heldur verður fundið til hræringa

burðarins. Þá er nú allt þetta lýsir sjer, eru reyndar nokkur líkindi til, að konan eigi sie eðlilega þúnguð, en fyrst verður þó geingið úr skugga um að svo sje, þá er hið óeðlilega egg kemur í ljós, en um leið og það verður, missir konan allajafna mikið blóð, og finnur hún til sárra verkja, að sínu leyti eins og hefði hún fæðíngarhríðir, og líkt og þá eggið ferst með öðrum hætti.

Á þessum stað má geta þess, að mjög sjaldan ber það við, að undir eins sje bæði eðlilegt og ónáttúrlegt egg í legholinu, en af því fylgir, að þykktin er þá bæði eðlileg og óeðlileg. En eigi verður komizt eptir því, að svo sje, fyr enn í fæðíngunni, þá er hið óeðlilega egg kemur í ljós, annaðhvort á undan eða á eptir burðinum. En venjulegast er þó að þesskonar egg komi fyrst í ljós með fylgjunni.

---

## ÁTTUNDI KAPÍTULI

## Almenn ráð, er barnshafandi konur skulu fara eptir.

### 54da gr.

Það er reyndar sjálfsagt, að þykkt kvenna er einganveginn að álíta sem sjúkdóm nokkurn, þá er hún er skoðuð sjerílagi, en hins vegar verður það eigi varið, að um meðgaungutímann fær óforsjállegur lifn-

aðarháttur venju fremur á konuna, og eins hverhelst önnur áhrif utan að, og er það því fremur skylda hennar, að komast hjá þessu, að svo miklu leyti í hennar valdi stendur, sem burðurinn getur beðið tjón af því, og opt leiðir slíkt til þess, að fæðíngin verður óeðlileg. Það er því mikilsvarðandi fyrir barnshafandi konu að vera mjög svo aðgjætna um hagi sína, og að svo miklu leyti henni er hægt, skal hún gjæta þess, sem hjer mun sagt verða, og á það eins heima hjá öllum konum, sem barnshafandi eru, meðan á meðgaungutímanum stendur; það er og skylda yfirsetukonunnar að gefa konunni bendíngar um þetta efni, og hvetja hana til að hlýða ráðum hennar.

Það má álíta sem *einkareglu*, að barnshafandi kona eigi bregði í neinu sjerílagi út af sínum venjulega lifnaðarhætti, að minnsta kosti að svo miklu leyti, sem henni hefir liðið vel við hann, og ef hann eigi beinlínis á ílla við þúngaða konu, því reynslan sýnir, að hver ein hastarleg breytíng á konunnar fyrra lifnaðarhætti, enda þótt hún annars vegar í sjálfu sjer sje til góðs, hefur opt íll áhrif á burðarlífið.

## 55ta gr.

Mikið er komið undir *loptinu*, sem konan dregur að sjer, og að svo miklu leyti unnt er, skal leggja alla stund á, að hafa það öldúngis óspillt eða hreint, og ekki blandað öðru skaðvænu lopti. Það er því einka ráð fyrir barnshafandi konu að halda því herbergi hreinu,

